Halldóri magnus
Vinsaml.
Þ. B.

# FERÐ

UM

# SNÆFELLSNESS OG DALASÝSLU

## SUMARIÐ 1902

HÖFUNDUR:

ÞÓRHALLUR BJARNARSON.

Sérprentun úr Búnaðarritinu 1903.

REYKJAVÍK.
PRENTAÐ Í FÉLAGSPRENTSMIÐJUNNI.
1903.

# Ferð um Snæfellsness og Dalasýslu
## sumarið 1902.

---

Það er ætlast til þess af stjórnendum Búnaðarfélags Íslands, að þeir, að því er kringumstæður leyfa, kynni sér af eigin heyrn og sjón hugi manna og háttu í sveitunum, og því var það síðastliðið sumar, að ferð sú var farin, sem hér segir frá að nokkru í eftirfarandi grein.

Eg get ekki verið að rekja áfangana og dagsetja þá, og sleppi ýmsu, sem gaman hefði verið að víkja að í ferðasögu frá jafnfögrum og söguríkum héruðum. Aftur vík eg að ýmsu, sem ekki beint snertir ferðina, en mér hefir til hugar komið í og upp úr ferðinni.

### I.

Þegar eg á Jónsmessudag var kominn norður yfir Hvítá til fornkunningja míns Andrésar Fjeldsteðs, sem lengst hefir verið kendur við Hvítárvelli, var eg strax farinn að kanna ókunnar slóðir. Andrés hefir nú litið um sig, og heitir býlið að Trönum. Litlu ofar er Ferjukot, „undir Þjóðólfs-holti“, gegnt Hvítárvöllum. Á öllum þessum stöðum hefir Andrés reist sér íbúðarhús; er hið síðasta á Trönum óásjálegast og ódýrast, en þó þótti mér mest koma til að skoða það. Andrés er smiður góður, einkar hagsýnn og töluvert nýbreytinn; nú hafði hann sett sér, þegar hann síðast bygði yfir sig, að gjöra húsið við hæfi íslenzks meðalbónda. Hann sagði mér verðið, og var það, hvort sem litið var til flatarmáls eða teningsmáls, ákaflega lágt, að minsta kosti fyrir þá, sem hafa slíkar tölur í höfðinu frá húsavirðingunum í Reykjavík. Hliðarskúrar til geymslu eru alla leið upp úr beggja megin íbúðarinnar, sem er tví-

lyft og vænn kjallari undir. Byggingin minti mig nokkuð á hugmynd Björns búfræðings Bjarnarsonar í Gröf (Búnaðarrit 6. ár), „að fyrirkoma sem mestu húsrúmi undir sem minstum þakfleti og innan sem fæstra veggja, . . . og gjöra hússtörfin auðveldari og skýla sem bezt að mannahíbýlunum". Kostirnir á þessu nýreista húsi á Trönum virtust mér auðsæir: Afaródýrt eftir rúmi, traust, hlýtt og hægt. En fallegt er það ekki. Þegar nú kemur nýr maður til byggingarannsókna að sumri, á hann brýnt erindi til Andrésar; hann hefir manna mest hugsað um breytt og bætt byggingarlag og verklega reynt sig á því sjálfur fyrir sig sjálfan.

Það er eitt stóra verkefnið að fá húsakynnin betri og ódýrari um leið. Það var aumt að sjá mannabústaðina suma hverja um Snæfellsnes, en þó nærri því enn sárara að sjá hvernig húsin hafa getað farið á einum 8—10 árum víða hvar, þar sem upp hefir verið bygt og lagt í tölu-verðan kostnað. Það má enginn efnalega við þeim ókjörum. Og hvað er nú að sjá híbýlin í sumarblíðunni, þegar alt er þurt, bjart og hlýtt? Eigi er þó svo að skilja, að bændur leiði þetta mein landbúnaðarins sérstaklega í tal við gest sinn, fólkseklan kreppir nú mest og kaupgjaldið, sem hleypur fram úr sölugildi afurðanna. En þetta hvað með öðru fellir eða reisir, eftir því sem fram horfir. Þær eru margar vinnustundirnar, sem ganga til viðhalds þessum endingarlausu byggingum, og hver hefir reikning á þeim? Og þessi vinna er mestöll tekin frá jarðabótunum og bjarg-ræðistímanum. Húsabótin hlýtur að fara í þá átt, að nota grjótið meira en nú gjörist, og tækin koma þá um leið til að draga það alt að sér að vetrinum. Þegar eg var að rannsaka umsóknirnar um verðlaun úr Styrktarsjóði Kristjáns konungs níunda, um 25 ára liðið skeið, þá var það eigi svo ósjaldan, að einmitt mestu atorkumennirnir, sem mest höfðu unnið að húsabótum, tóku það fram, hvað mörg hundruð hest-b u r ð i r af grjóti höfðu verið aðfluttir langa vegu. Er slíkt verðlaunavert, hugsaði eg þá og spyr nú.

Komi það fyrir þann og þann veturinn, að ekki fáist dráttarfæri, sem helzt á sér stað hér sunnanlands, þá er mannsæfin nógu löng og vitið gefið til fyrirhyggju, og ekki alt undir einum vetri að eiga. Það er ofdýrt að reiða grjótið að vorinu. Og aumingja hestarnir, grannir og þróttlitlir, milli heys og grasa. Og þegar eg er að tala um grjótaðdrættina að vetrinum, þá minnist eg um leið margra bæja með illfærum tröðum og óþrifasvaði í kring um húsin mestan tíma ársins, en með óþrjótandi smágrjót alt í kring, sem býður sig mannshendinni til afnota, án þess að nokkru sé niður slökt.

II.

Með kvöldflóðinu voru bátar á leið úr Borgarnesi að sigla upp eftir Hvítá. Einhvern tíma kemur að því að notaður verður meira en nú þessi eini lagarvegur landsins, sem liggur frá höfuðstaðnum og mannfjöldanum við Faxaflóa beint á brautina norður. Ekki efamál að grunnskreiður hjólabátur treður strauminn og fer það sem íslenzk skip fara nú. Það er afarmikið gras beggja megin Hvítár hið neðra, og stórum má það auka og bæta með vatnsveitingum. Seinustu árin hefir nokkuð af heyi komið þaðan til Reykjavíkur, og hún gæti tekið við miklu meira, en samgöngufærin eru enn þá ofdýr, til þess að það borgi sig. Þarna beggja megin árinnar ætti að mega búast við stórum smjörbúum, sem væru einkar vel sett, væri á öllum tímum árs hægt að koma smjörinu frá sér úr Borgarnesi. Aðalseljandi smjörsins okkar á Englandi telur það mikið mein, að ekki er sent árið um kring. Gufubátsferðir í Borgarnes að vetrinum get eg þó því að eins gjört mér von um, að póstflutningur vestur og norður sé látinn fara þar um, eða með öðrum orðum að landpóstar tækju sig upp þaðan, og er það þýðingarmikið íhugunarefni, hvort sá mikli sparnaður á póstflutningi á landi mundi ekki töluvert jafna aukinn kostnað við að hafa bátinn í ferðum alla mánuði ársins og

setja leiðarljós í firðinum og vita á Akranesi. Mikill óbeinn hagnaður ætti að verða af því.

III.

Ráðið var áður en eg fór af stað, að búnaðarfélagastjórnirnar í Mýra- og Borgarfjarðarsýslum ættu fund við stjórnendur Landbúnaðarfélagsins, og hafði eg því engan tíma ætlað til viðstöðu á Mýrunum, en hélt vestur sem leið liggur. Nýju brautinni fylgdi eg ekki lengur en að Urriðaá, fór upp með henni og að Grímsstöðum, og hefi eg aldrei komið í slíkan „birkiþrasta sveim“ sem þar á skógargötunum. Eg hefi aldrei haft neitt að segja af óveginum um Mýrarnar; honum hefir verið viðbrugðið síðan Egill „þrevetur“ fór vegleysurnar á eftir veizlufólkinu að Álftanesi um „holt og skóga“. Mér voru sýndar krókaleiðirnar, sem áður varð að fara fyrir ófær mýrarsund, og mikið mega bygðirnar þar vestur um blessa þann veg, allra helzt þegar hann er kominn allar götur vestur fyrir Haffjarðará. Ekki er að tala um þægindin af slíkum vegi, en vagnarnir einir geta borgað hann. Þessi braut frá Borgarnesi vestur í Hnappadalssýslu ber sig því að eins að hún geti orðið viðskifta-lífæð milli sveitanna og Reykjavíkur Bak við Borgarnes stendur Reykjavík og hún dregur. Með veginum verða vagnarnir að koma. Þegar séra Jón Bjarnason í Winnipeg var hér á ferðinni 1889 lét hann þess getið, að engir sæust vagnar í Reykjavík, nema ölvagnar. Nú skifta þeir fleirum tugum vagnarnir með hestum fyrir, sem stöðugt eru á gangi. Sama verður í sveitunum, þó hægt fari. Mér var sagt vestra, að í einni sveitinni þar væri það lenzka að hlaupa í hús um sláttinn, ef skúr kæmi úr lofti; sé það satt, ættu þeir góðu hálsar að sjá ökumennina hérna að verki sínu í Þorrahríðunum. Fjárrekstrar til Reykjavíkur verða örðugir úr Mýrasýslu neðanverðri og Hnappadalssýslu, og það enda þótt brú kæmi á Hvítá hjá Þjóðólfsholti, sem langt getur orðið að bíða, en hitt lærist þessum sveitum að slátra heima hjá sér og flytja kroppana

á vögnum til Borgarness, hvort heldur til söltunar þar eða til sölu í Reykjavík. Hagræðið ekki minst þetta að geta slátrað heima.

Eg vil sem fæst um þær sveitir segja, sem eg fór hratt yfir eins og hver langferðamaður og hafði fremur litlar spurnir af. Sauðland er auðsjáanlega gott um Mýrar, og svo reyndist Skallagrími á Borg, er fé hans gekk sjálfala í skógunum öllum vetrum. Í annan stað er sennilega við sjóinn allvíða frjór sandur til kartöfluræktar, og þar sem nú er kostur á að fá ákaflega ódýrar gaddavírsgirðingar með stálteinum, ætti að mega búast við góðum hagnaði af þeirri rækt, og létt er að færa girðinguna úr stað, ef fyrsta tilraun gefst ekki. Síra Einar prófastur Friðgeirsson á Borg hefir sérstaklega vakið athygli Búnaðarfélagsins á því atriði, og mun hann hafa í hyggju að gera tilraun vestur í Álftaneshrepp. Gæti kartöfluræktin orðið sjávarjörðunum þar vestur um jafn-mikill bjargræðisvegur og hún er Akranesinu, væri vel farið.

Eitt heyrði eg fundið til foráttu hinni miklu vegabót vestur Mýrarnar, að hún drægi bændur mjög svo frá jarðabótastörfum, þeir væru svo margir í vegavinnunni, og er það skiljanlegt. Nývirkin fara heldur fækkandi er fjær dregur Hvítá, yfirleitt mun svo farið um Mýrasýslu sem Borgarfjarðar, að niðursveitirnar standa sig miður en uppsveitirnar. Sem sagt get eg þó sárlítið um það sagt af eiginni sjón hvað Mýrasýslu snertir. Gistingarstaður minn voru Grímsstaðir í Álftaneshreppi, hjá Hallgrími bónda Níelssyni, og er þar alt sérlega vel um gengið, timburíbúðarhús, og margt gjört jörðinni til sóma.

## IV.

Gamall og greindur bóndi úr Árnessýslu, sem farið hafði kynnisför vestur í Hnappadalssýslu sagði mér fyrir nokkrum árum, að mest hefði sér í augum vaxið, hvað grasið var mikið þar vestur um, en um leið féð svo fátt til að nota. Og víst er um það, að fagurt er landið og meiri

sumargróður var í Kolbeinsstaðahreppnum vestanverðum, og þá einkum í kring um Garðana, en eg hafði séð suður um. Ferðinni var nú heitið að Þverá í Eyjahreppi og fylgdi Hallgrímur á Grímsstöðum mér þangað. Á leið þeirri eru margir skemtilegir blettir eins og alstaðar hér á landi þar sem hraun eru gróin upp. Á Staðarhrauni eru í kirkju menjar Jóns prófasts Halldórssonar frá Hitárdal, en þar er kirkja lögð niður. Nokkru neðar en Staðarhraun er Brúarfoss, þar sem brúin á að koma yfir Hitá, samkvæmt lögunum 9. sept. 1899. Á Þverá í Eyjahreppi býr Kristján hreppstjóri Jörundsson, er hann formaður búnaðarfélags Eyjahrepps. Kristján hefir búið á Þverá 14 ár, fær hann þar nú 150 hesta af töðu, en fekk 60 þegar hann kom að jörðinni, og auk þess liggja eftir hann töluverðar húsabætur. Daginn eftir að eg kom að Þverá reið eg fram að Rauðamel ytri, býr þar nú Miklaholtspresturinn séra Árni Þórarinsson, og er landseti Jóns konsúls Vídalíns. Séra Árni hefir mikinn hug á jarðabótum, geti hann keypt jörðina, og frá mætti skilja ölkelduna eða yfirráð hennar, sem kaupandi jarðarinnar mun mest hafa gengist fyrir. Á Rauðamel kom til fundar við mig formaður búnaðarfélagsins í Kolbeinsstaðahrepp, Sigurður hreppstjóri Brandsson í Tröð, öldurmannlegur bóndi. Í Kolbeinsstaðahrepp er helzti jarðabótamaðurinn Ólafur Erlendsson á Jörfa, með rúm 50 dagsverk 1901, í félaginu um 20 bændur. Eyjahreppur er með minstu hreppum og búnaðarfélagið þar því mjög fáment, og um leið lítið unnið. Í Kolbeinsstaðahreppnum eru margar kirkjujarðir, en í Eyjahrepp fleiri umboðsjarðir. Lítið um sjálfsábúð á Snæfellsnesi. Tvær voru mér sagðar skilvindur í Eyjahrepp, en engin í Kolbeinsstaða. Vefstólar voru mér sagðir vera all-víða í Hnappadalssýslu, en ekki mikið notaðir. Ekki næst til kembingarvéla, of margar flutningastöðvarnar að geti borgað sig að að senda til Ólafsdals eða suður. Prjónavélar 1—2 í hreppi. Kristján á Þverá sagði mér að gott bú teldist þar um slóðir, ef

kýrnar væru 5, ærnar 50 og eitthvað af gemlingum: sauðaeign sama og engin.

Væri Rauðamelsölkelda í frjórra og fjölmennara landi, mundi þar fljótt verða reistur heilsubótarskáli til sumarvistar. Ölkeldan er góða bæjarleið frá Rauðamel; vatnið er einkar bragðgott og hressandi, en þó sögðu þeir sem með mér voru, að vatnið væri með dauafsta móti þann daginn. Landið í kring er skemtilega breytilegt, vantar bara skóg í hlíðina. Fyrir neðan Rauðamel er hátt og fagurt stuðlaberg, góðan kipp með götunni upp af grænu halli, og heitir það Gerðuberg. Alt gæti þar verið til yndis sumargestum í góðri tíð, og vígja mætti vatnið með auglýsingum til heilsubótar útlendingum. Versti tálminn er sjö daga sjóleiðin frá Englandi.

Það var ofsagt hjá mér (Búnr. 1902 bls. 264), að láta alla Hnappadalssýslu eiga óskilið mál um litlar jarðabætur. Búnaðarfélag Miklaholtshrepps vinnur vel og lofsamlega, ekki sízt þegar þess er gætt, að flestallir eru leiguliðar, 4 eða 5 jarðir í sjálfsábúð, 12 félagsmenn hafa nú síðast unnið yfir 600 dagsverk. Yfir 100 dagsverk hafa þeir Sigurgeir Sigurðsson á Svarfhóli, Hjörleifur Björnsson á Hofstöðum og Þorgils Sigurðsson á Kleifárvöllum, eru það alt bændaeignir, 2 í sjálfsábúð. Einhver mesta og bezta jörðin þar í sveit er Hjarðarfell, sögð prýðisvel setin af Erlendi bónda Erlendssyni. Formaður búnaðarfélagsins þar er Stefán hreppstjóri Guðmundsson á Borg, tók hann við mér af Kristjáni á Þverá, og kölluðum við það til gamans hreppstjóra-flutning, og kann eg báðum beztu þökk fyrir viðkynninguna. Á Hofstöðum átti eg til góðra kunningja að hverfa. Jörð sú hefir svo mikla minningarhelgi eftir Eggert Ólafsson, og skil eg vel að hann kaus sér og brúði sinni þá jörð, því að margt og mikið er þar til kosta. Í túnfætinum eru grónar smáreinar, sem Eggert hafði gjöra látið til sáningar. Nú er jörðin að rísa úr rústum fyrir dugnað ábúanda og góða hjálp eiganda. Eitt versta meinið þar, sem reyndar um alt Snæfellsnes, er girðingarleysið, og mun nú verða úr því

bætt að tilhlutan eiganda. Þegar 135 faðmar af gaddavír fást fyrir rúmar 7 krónur eins og auglýst er í síðasta hefti Búnaðarritsins, þá verður margt gjörlegt, sem áður var ókleift, þarf bara samtökin til að nota stórkaupin. Auk þess hagar og víða svo til eins og á Hofstöðum að hver önnur girðing en með gaddavír yrði óbærilega dýr.

Búnaðarfélög Hnappadalssýslu eiga ríflega sjóði, standa þeir mest í leiguám og eru vextir því háir, en ábyrgðarauki fyrir félagastjórnirnar. Svo er og nokkur verkfæraeign. Kostur er það fyrir Eyjahrepp og Miklaholts, að útsvör eru þar mjög létt, sveitarþyngsli rétt engin. Það sögðu menn mér, að alls eigi væri fullreynt með Skógarnesið til vöruflutninga með flóabátnum, en reisa þyrfti þá geymsluskála þar, og stæði vart á því hjá bændum, ef von væri á þeirri miklu samgöngubót. Þar er alt illflytjandi að sér og frá, hvort heldur á sjó eða landi, og er það eigi lítið mein; en kaupstaðarlaus bygð, sem tæki og léti sína þungavöru tvisvar á ári,væri vísast ekki svo illa farin. Löggiltur verzlunarstaður gagnslaus er að Stakkhamri í Miklaholtshreppi. Þar — í Straumfirði — var kauptún til forna, nú spilt af sandi, eins og Hraunhöfn gamla, upp af Búðum. Bygðin sjálf hefir marga kosti, og eg hafði tal og sjón af nógu mörgum til þess að geta um það borið, að þar eru ekki svo fáir vel myndarlegir menn, og er heldur til góðs að vona um þær sveitir, allra helzt ef samgöngurnar batna.

## V.

Staður á Ölduhrygg eða Staðastaður er frá fornu fari hefðarsetur og auðræða, og hafði mig oft langað til að koma þangað, en blómlegra hefir áður verið umhorfs í Staðarsveit, sem nú er svo hörmulega komin. Það er eigi ofsögum sagt af hnignun þeirrar sveitar, sem virðist ágjörast ár frá ári. Bara í vor sem leið lögðust í eyði í Staðastaðar-prestakalli tvær bændaeignir, tvær kirkjujarðir og tvær þjóðjarðir, svo að ekki hallast á, enda mun í sjálfri Staðarsveit áhöld um tölu jarðeigna í hverjum flokki um sig. Og þegar jarðirnar

leggjast í eyði, er ekki annað að hafa en spýtnaruslið í kofunum, og gott ef kúgildin nást. Það er ekki einu sinni þriðji hlutinn af búandi mönnum í prestakallinu, sem nær skiftitíund.

Þeir séra Vilhjálmur Briem á Staðastað og Kjartan bóndi Þorkelsson á Búðum fræddu mig mest og bezt um ástandið í Staðarsveit og Breiðuvíkurhreppi. Af því að mér var svo ant um að geta sem rækilegast lýst því, bað eg þá í haust, hvorn í sínu lagi, að láta uppi álit sitt skriflega, og hafa báðir orðið vel við því. Eg veit að þeir hafa búist við, að þessar skýrslur væru að eins mér til afnota, og það var upphaflega hugsun mín, en eg tími ekki að missa af neinu í þeim, og hygg bezt farið að þeir segi með eigin orðum, allra helzt þar sem hvor þeirra fer sína götu. — Séra Vilhjálmur Briem ritar mér á þá leið:

„Eg sendi yður nú nokkur orð um Staðarsveit, ef þér gætuð hagnýtt yður þau. Eg er helzt til ókunnugur til þess að gefa fullkomna lýsingu á sveitinni, en það sem eg segi, held eg að sé áreiðanlega rétt.

Staðarsveit mun vera um 4 mílur á lengd og breiddin frá $^1/_2$ mílu til 1 mílu. Fyrir austan sveitina er Miklaholtshreppur, en vestan Breiðavík. Að sunnan er Faxaflói, og Snæfellsnessfjallgarður að norðan. Sveitinni hallar nokkurn veginn jafnt frá fjöllunum niður til sjávar og liggur því vel við sól.

*Veðrátta* mun svipuð og gjörist um Suðurland. Votviðrasamt til baga eg leiðinda. Þó má gjöra þann mun á veðráttufari hér og sunnanmegin Faxaflóa, að þegar útsynnings regnstormarnir geysa um Reykjanes, þá rignir í logni hér sunnanfjalls á Snæfellsnesi um sumarmánuðina.

Fjallgarðurinn veitir gott skjól fyrir norðanátt. Einkum sést það á vorin; þegar norðannæðingarnir eru norðanfjalls, þá er oft logn og sólbráð sunnanfjalls, enda grær jörð hér mun fyr á vorin en víðast annarstaðar um landið. Fjallgarðurinn veitir skjól fyrir norðanvindinum, en þó er það,

að nái hann sér á norðan, er hann stundum feykihvass. Örsjaldan munu þó norðanveður hafa gjört skaða að mun. Aftur á móti kemur það fyrir að bezta gagn er að norðanvindi að vetri til, þegar snjóþungt er orðið, því þá sópar Kári sveitina og kemur þá upp nóg jörð. Norðanbyljir koma hér stundum allharðir, en aldrei standa þeir lengur en sólarhring í senn.

*Heyfengur.* Tún eru yfirleitt í órækt, en þeim mætti auðvitað koma í rækt, og víða hagar svo til, að það er tiltölulega auðvelt að auka þau að miklum mun.

Engjar eru víðast grasmiklar og kraftgott fóður af þeim. Engjarækt held eg sérstaklega ætti að veita athygli. Smáár og lækir streyma víða niður úr fjöllunum. Vatnið í ám þessum hefir mikinn forða af frjóefnum, sem sjá má af því, að alstaðar þar sem vatn þetta fer yfir landið, sprettur vel. En nú hagar svo til, að nálega á hverri jörð í sveitinni eru mýrar, sem hægt er að veita vatni yfir án mjög mikillar fyrirhafnar. Er þá mjög líklegt, að gras mundi aukast stórmikið. Annars má vera, að ótímabært sé, að tala um að auka grasvöxt í Staðarsveit, þar sem vitanlegt er, að fleiri þúsund hesta engi liggur ónotað ár eftir ár. Það er ekki ofsagt, að margur bletturinn er aldrei ljáborinn, þar sem meðalmaður gæti slegið á 10—12 hesta yfir daginn.

*Beit* er víða góð að vetri til. Fjörubeit er víða fram með sjónum, og ofar í sveitinni þykir víða gott fyrir fé á vetrum, bæði á kvistflóum á láglendinu og hér og þar í fjallinu. Sem dæmi um útbeitina má nefna, að veturinn 1900—01 gekk hrútlamb af gjafarlaust í Gaularflóa ásamt fleira fé. Gaul er landsjóðseign, nú í eyði. Sumstaðar teygjast hrauntungur fram úr fjallaskörðunum. Í þeim er bæði gott land og skjólasamt. Sumarland er alstaðar sérlega gott fyrir stórgripi og víða einnig fyrir ásauði.

*Garðrækt* hefir töluvert verið stunduð hin síðari árin og gefist vel, einkum við sjóinn, þar sem jarðvegurinn er blandinn skeljasandi.

*Fiskveiðar* voru áður stundaðar af kappi. Nú er það

aflagt nema að vorinu. Á tímabilinu frá miðjum maí til Jónsmessu er sumstaðar róið enn, og fiskast allajafna vel.

*Silungsveiði* er stunduð í ám og vötnum, sem gnægð er af í Staðarsveit, og kemur árlega margur málsverðurinn úr veiðivötnum þessum. Mikið af silungnum gengur úr sjó, er því feitur og næsta ljúffengur. Sumstaðar eru veiðivötnin við túnið, og er þá kostnaðarlítið að stunda veiðina. Á öðrum stöðum eru þau í nokkurri fjarlægð og þar tel eg silungsveiðina fremur til ókosta, eins og hún er stunduð. Hver bóndi hefir sinn netstúf og eyðir alt of miklum tíma af slættinum til þess að vitja um hina örlitlu útgerð sína. Verður því silungurinn dýrkeyptur, þó hann að hinu leytinu sé mikils virði, þegar lítið eða ekkert er til heima fyrir af matvælum. Víða hagar svo til, að nokkrir bændur geta veitt í félagi, yrði þá tilkostnaður minni og silungsveiðin um leið góð hlunnindi.

*Æðarvarp* er sem stendur að eins á 5 bæjum í sveitinni. En æðarfugl fer um alla sveitina og finnast hreiður og hreiður víðsvegar. Eru því sterkar líkur til að koma mætti á æðarvörpum mun víðar en er, einkum með því að gjöra hólma á grynslum í stöðuvötnunum og gjöra svo hólmana aðgengilega fyrir fuglinn. Annars væri að minni hyggju mikilsvert, að varp væri sem víðast, svo að sem flestum væri umhugað um að vernda fuglinn. Enn fremur þyrfti að batna í búi manna, svo að minkaði freistingin til þess að borða fuglinn áður en hann kemur úr egginu.

*Reki* er dálítill, því að oft strjálast spýtur upp á ströndina, þó það sé mjög farið að minka. Eru það góð þægindi fyrir þá, sem við sjóinn búa, að fá við þennan alla leið heim til sín.

*Mótekja* er á hverjum bæ í sveitinni og víða afbragðsgóð. Er það mikill kostur fyrir sveitarbúa og sérlega mikilsvert fyrir grasræktina, því sjálfsagt er að haft verður alt sauðatað til áburðar, þegar lag er komið á búskapinn.

*Hús* fyrir menn og skepnur eru víðast hvar í hörmulegu ástandi. Auk þess sem húsin eru lág og loftill, eru

tveir aðalgallar á byggingunum. Ekkert er hirt um að grundvöllurinn sé rakalaus og þakið er ekki haft vatnshelt. Svo eru húsin endingarlítil, að talið er sjálfsagt að byggja hvert hús upp 6.—9. hvert ár. Gengur þannig feiknatími og fé í byggingakák þetta. Á síðustu árum er lofsverð breyting að komast á. Einstöku menn eru farnir að afla sér vatnsheldra þaka, að minsta kosti á baðstofurnar. Laga þarf löggjöfina, svo leiguliðar hvorki geti né þurfi að taka vatnsheldu þökin af við burtför af jörðum. Annars þyrfti að athuga, hvort gjörlegt sé að hrófa upp húsa-*ræflum* á landsjóðsjörðunum, sem nú eru húsalausar, þegar þær byggjast aftur.

*Afréttir* eru litlar, þó þær séu nægar fyrir þann fénað, sem nú er í sveitinni, en fjölgi fé, verður skortur á afréttarlandi. Virðist þá liggja nærri, að þeir örfáu bæir, sem nú eru í bygð fyrir framan Jökul, væru í eyði lagðir, en landið fyrir framan Jökulinn yrði gjört að afrétt. Fengist þá stór og sérlega góð afrétt. Í fjöllunum upp af sveitinni eru að minsta kosti tvö dalverpi, sem fyrirhafnarlítið er að girða. Einkennilegastur er Mælifellsdalur. Þar er graslendi allmikið. Dalurinn er luktur hömrum á alla vegu, að eins er hlið eitt inn að ganga. Talin eru 6 dagsverk að girða þar gripheldum garði. Eru dalverpi þessi sjálfkjörin nautaafrétt, og enn fremur munu þau verða til mikillar hægðar, þegar að því rekur, að menn fara að hugsa um kynbætur hesta.

*Kýr* eru yfirleitt mjólkurlágar. Mun 10 merkur eftir burð talin meðalnyt. Þó eru góðar kýr til innan um. Ein kýr, veit eg um, að kemst í 19 merkur, og mun það vera mjólkurhæsta kýrin í sveitinni.

*Hestar* eru fremur vænir og til eru þó nokkur hross sérlega falleg og dugleg.

*Fé* er allvænt. Tveir veturgamlir hrútar nágranna míns vógu í haust 140 pd. hvor. Það var öll hans hrútaeign, og hafði hann brúkað þá í fyrra vetur til ánna. Graslömbin hjá mér eru að meðaltali 65 pd. Dilkur, sem tekinn var í hús á Búðum í miðjum nóvember í vetur, var þá 99 pd.

*Samgöngur.* Vegir eru ágætir um sveitina endilanga, en bæta þarf veginn frá fjallbæjunum og enn fremur um suður- (austur-) hluta sveitarinnar. Þegar því væri komið í lag, mundi heppilegt að tvö mjólkurbú væru í sveitinni og póstar færu meðfram bæjunum og tækju mjólk hvers eins og flyttu á mjólkurbúin. En því að eins tel eg gagn að mjólkurbúunum, að auðvelt sé að koma afurðunum frá sér. Þetta mundi og auðvelt, ef Faxaflóabáturinn gengi til Búða. Það hefir farið mikið orð af því, að Búðahöfn sé slæm og skal því ekki neitað, en hinu vil eg halda fram, að hún sé ekki svo slæm, að hana megi ekki nota. Máli mínu til styrktar get eg bent á, að öll þau ár, sem strandferðaskipið Skálholt hefir átt að koma þar við, hefir það alls einu sinni orðið frá að hverfa vegna veðurs. Fyrir nokkrum árum gekk Faxaflóabáturinn nokkrar ferðir á sumri til Búða og Skógarness. En bæði kunnu menn ekki að nota ferðirnar svona fyrst í stað, og svo kom upp einhver stirðleiki milli skipstjóra og þeirra, er nota áttu skipið, sem meðfram varð til þess að ferðirnar urðu ekki að gagni og lögðust svo ferðirnar niður. En nauðsyn er á að þær hefjist að nýju. Eg vil hér nefna eitt dæmi upp á þörf á samgöngum til Reykjavíkur. Þegar mjólkurbú eru komin á, þarf að koma smjörinu frá sér og svo mun undanrennu vel varið til þess að ala upp kálfa. Þegar þeir eru vaxnir, ætti annaðhvort að senda þá sjálfa eða kjöt þeirra. Sömuleiðis mætti að haustinu til slátra fé daginn áður en skipið kæmi, búa þriflega um kroppana og senda þá svo til kjötmarkaðar í Reykjavík".

Kjartan bóndi Þorkelsson ritar mér sem hér segir:

„Þegar um það er að ræða, hvað helzt muni geta orðið Staðarsveit og Breiðuvíkurhreppi til viðreisnar, er margs að minnast, bæði að því er kosti þessara hreppa snertir, einkum Breiðuvíkurhrepps í heild sinni, og meðul þau, er til

viðreisnar geta orðið, sem vafalaust geta verið mörg — ef þau væru fyrir hendi — með tilliti til kostanna.

Eg þykist vita að öllum, sem um sveitir þessar hafa farið, muni vera nokkuð auðsæir kostir þeirra, og því þurfi eigi að fara um þá mörgum orðum. En af því að líklegt er, að mér sem kunnugum manni séu kostirnir enn kunnari, en ókunnugum, er um fara, og eg því kunni gjör á þeim deili, og það, að þér fóruð eigi um nema minsta — en þó blómlegasta — hluta Breiðuvíkurhrepps, ætla eg hér ögn að minnast kostanna.

Að því er Staðarsveit við kemur er það öllum ljóst, er á líta, að hún er grasi vafin og því slægnasveit. Munu því flestir, er eigi eru gagnkunnugir henni, svo á líta, sem hún sé sjálfkjörin undir kúabú, en eigi eins vel fallin til sauðfjárræktar. En þessu er þó varla að öllu leyti svo varið. Þó sveitin sé grasauðug, eins og fram er tekið, er slægjunum allvíða svo varið, að til þess að fenginn verði stórvægilegur heyskapur, svo sem kúabúum hentar, þarf mjög mikilla umbóta við, og það mjög bráðlega. Þannig þyrfti allvíðast mjög mikilla túnbóta við, svo sem sléttana og útgræðslu, og engjabóta að því skapi, framræslu og áveitinga, og það alt stórvægilega á sumum stöðum. En þegar litið er til þess, að búskapnum er svo farið — nærri fremur öðrum atvinnuvegum — að framleiðsla hans þarf að vera sem auðveldust og auðgerðust, og hann því samfara þolir eigi íburðarmikinn tilkostnað, svo sem til jarðabóta, þá virðist varla heppilega stofnað, að leggja að svo komnu aðaláherzluna á kúarækt í þessari sveit. Jafnframt þessu verður því að líta á það, að þar sem allmikill heyskapur er hér auðfenginn án stærri eða kostnaðarmeiri jarðabóta en svo, að gerandi sé ráð fyrir að bændur fái við þær ráðið án verulegs tilkostnaðar, og auk þess er hér allvíða mjög mikil fjörubeit við sjávarsíðuna, svo og talsverð vetrarbeit á sumum fjall- og miðsveitarbæjunum, þá er sveitin engu síður vel fallin til sauðfjárræktar og teldi eg enda réttara, eins og nú stendur, að láta sauðfjárræktina sitja í fyrirrúmi, einkum

þegar tekið er tillit til þess, að til þess að framfleyta sauðfjárbúi þarf minni vinnuafla til heyskapar, en til þess að framfleyta jafn-nytjamiklu kúabúi; en allir vita hver þröskuldur vinnufólkseklan er, eigi síður hér en annarsstaðar. Og enn verður að geta þess, að sveitin á nægilega rúmgóð afréttarlönd fyrir jafnvel sex sinnum fleiri sauðfénað, en nú er til í henni, og að því skapi viðunandi kostagóð.

Þannig eru því kostir Staðarsveitar frá náttúrunnar hendi, eins og á hefir verið bent, þessir: Miklar slægjur auðfengnar án mikilla umbóta, til sauðfjárræktar og nautpenings jöfnum höndum, en þó öllu fremur til hins fyrnefnda, fjörubeit við sjávarsíðuna allmikil, vetrarbeit að öðru leyti talsverð eigi óvíða og afréttarlönd næg. Útræði þarf varla að nefna, því það mun varla verða nema til stuðnings, þegar bezt lætur.

Þegar um kosti Breiðuvíkurhrepps frá náttúrunnar hendi er að ræða, skiftir mjög í tvö horn við Staðarsveit, þó góð sé; er það að vonum, því Breiðuvíkurhreppur mun, þegar alls er gætt, óhikað mega teljast kostaauðgastur allra hreppa Snæfellsnessýslu, þeirra er plóglausir eru. Eins og yður er kunnugt fyrir eigin sjón, er Breiðavíkin sjálf (þ. e. frá Öxl og út að Sleggjubeinsá austan Sölvahamars) svo grasauðug og mok-slægjurnar á engjum, auk hinna fágætu túna þar, svo miklar, að eg get ímyndað mér, að leita verði um margar sýslur áður en fundnar verði slíkar engjar, jafnvíðáttumiklar og jafnsjálfgerðar til notkunar án endurbóta. Má geta þess hér, að nákunnugur maður fullyrðir, að t. a. m. á Litla-Kambi (sem er rúm 6 hndr. að dýrleika) megi heyja árlega á engjum 30 til 40 kýrfóður, og að svo séu engjar þar grasgefnar, að þar sem þær séu snegstar, slái meðalmaður að minsta kosti 10 þurrabandshesta á dag. Sami maður fullyrðir, að á næstu jörð, Gröf, (sem er 12 hndr. að dýrl.) muni 2 karlmenn og 3 kvennmenn tafalaust geta heyjað 1000 til 1200 þurrabandshesta á slíku sumri og þetta útlíðanda var. Og fleiri jarðir þar eru þessum nær jafnokar, svo sem Knarrar-„pláss“jarðirnar, Stóri-Kambur og Miðhús.

Í Breiðuvíkinni er auk þess allvíðast allgóð vetrarbeit, á Knerri mjög góð og fjallendi víðáttumikið og allkostgott. Hinn hluti Breiðuvíkurhrepps er engu síður kostum búinn, þó nokkuð sé það á annan veg. Utan Sölvahamars er þá fyrst Arnarstapi, fiskiver allgott. Þar munu vera tún svo góð (sem öll liggja hvort að öðru), að þau nú fóðra um 15 kýr, en mundu með sæmilega góðri hirðingu geta fóðrað milli 20 og 30 kýr; auk þess er þar margra dagslátta túnstæði mjög auðunnið. Þá koma Hellnar, hin fiskisælasta veiðistöð, jafnt vetur og sumar. Þar eru nú tún svo mikil að þau fóðra um 20 kýr, en mundu geta tvöfaldast án stórkostnaðar; þar er afbragðs vel fallið til garðræktar, enda garðrækt þar talsverð; þar er og sauðganga svo góð, að á góðum vetrum ganga sauðir, eldri en veturgamlir, sjálfala. Á Malarrifi og í Einarslóni eru landkostir fyrir sauðfé mjög góðir; þar er hið fiskisælasta svæði undir Jökli. Á Malarrifi er fugltekja eigi lítil. Í Einarslóni eru afarstór tún og sæmilega grasgefin. Í Beruvík er fiskiver sæmilegt; þar eru tún mjög mikil, en gætu verið miklu meiri; þar er og sauðganga afbragðs góð, bæði á fjöru og fjalli, jafnt vetur og sumar. Þá er Saxáhvoll, ef til vill ein hin bezta sauðjörð í sýslunni. Þar er einnig afarmikil fugltekja í Svörtuloftum. Loks er Öndvertnes fiskisælt að vonum, þar sem það liggur fyrir tvennum hafgöngum.

Kostir Breiðuvíkurhrepps frá náttúrunnar hendi eru því í stuttu máli þessir: Afbrigða slægjur, fengsæl fiskiver hvort út af öðru, sauðlönd afbragðsgóð og afréttarlönd afarvíð og mjög kostagóð. Enda mætti sá hreppur eiga sér mjög blómlega framtíð.

En vanþrifameinin eru mörg, bæði í Breiðuvíkurhreppi og Staðarsveit og má drepa á þetta: Ónógur dugnaður, margúreltur hugsunarháttur, úr sér gengin kynslóð margra orsaka vegna, afarvond og kúgandi viðskifti, alls engar samgöngur við aðra landsfjórðunga til skamms tíma og alls ónógar eftir að þær urðu o. fl. o. fl. Er því margt meinið sem græða þarf, enda mörg skilyrði til þess frá náttúrunnar

hendi að meinin geta græðst í þessum sveitum. Þannig má nefna, að Breiðavíkin er að líkindum eitthvert hið sjálfkjörnasta svæði undir mjólkurbú, Hellnar og Stapi (Arnarstapi) einhver hin lífvænlegustu fiskiver, sökum fiskisældar og hinna miklu landnytja, túna o. s. frv., og svo loks ytri hluti Breiðuvíkurhrepps sjálfkjörinn undir sauðfjárbú, auk þess sem þar eru afbragðs veiðistaðir.

En hver eru endurreisnarráðin, sem notasæl eru og framkvæmanleg? Þau eru auðvitað mjög mörg, en eg skal láta mér nægja að nefna þessi — þau varða hvort sem er mestu:

1. Tíðar samgöngur þannig, að bygðarlagið undir Jökli geti eftir þörfum haft viðskifti við Vestfirði, Reykjavík og fleiri staði. Þá mundi viðskiftaleiðin greiðkast, en hún er nú hér nær ófær öllum, og er því á flestum framkvæmdum óslítandi haft.
2. Að sem mest að við verður komið flytjist inn í þessar sveitir af nýtum framkvæmdarmönnum úr öðrum landsfjórðungum, þeim er hafa vit, vilja, kunnáttu og dugnað til þess að nota þau gæði hér, sem nú eru ónotuð, bæði til lands og sjávar. Þá mundi og breytast hugsunarháttur og framkvæmdir þeirra, sem nú eru hér, og rísa upp ný kynslóð.
3. Að þing og landsstjórn, svo og Búnaðarfélag Íslands, hlutist til um framar en hingað til hefir átt sér stað, að sveitir þessar, Breiðuvíkurhreppur og Staðarsveit, verði aðnjótandi engu síður en aðrar sveitir — ef eigi framar — allra þeirra tilrauna og fjárveitinga frá hendi þessara stjórnvalda, er miðar til þess að efla landbúnað og sjávarútveg.

Fleira og ítarlegra mætti um þetta rita. En eg læt mér þetta nægja að sinni sem bending um mína skoðun, og vona eg, að eg í því tilliti hafi uppfylt ósk yðar.“

Þessa heimildarmenn mína skilur nokkuð á um það, hvort fremur skuli í bráð snúast að kúarækt eða sauðfjár, enda eru miklir kostir fyrir hendi til hvors sem vill, og er

einn kosturinn ónefndur enn í Staðarsveit, að fjárpest þekkist þar alls ekki, þó að hún sé á næstu grösum t. d. heldur pestarhætt við Hellna. Í annan stað ber þeim á milli um vesturhluta Breiðuvíkurhrepps, og er eg á því máli, að landið fyrir framan Jökul leggist til afréttar. Jarðirnar þar, sem rétt allar eru opinber eign, eru, hvað mikil gæði sem þær nú hafa til lands og sjávar, að leggjast í eyði, dugir ekki við að stríða og viðreisnarkröftunum þarf að beita nær sér Þeir eru ekki of-miklir. Kring um Jökul verður aldrei vegað, alt félagslíf verður þar mjög örðugt og þá eigi síður barnafræðsla. Sjálfgefið yrði og þá, er bygðin endaði um Hellna, að leggja þá sókn til Staðastaðar, og kæmi þá með tímanum ein kirkja fyrir miðri Breiðuvík í stað Hellna og Búða, yrði það alt óslitin bygð, frjó og fögur, og alveg torfærulaus.— Hitt var nokkuð djarft, að ætla sér að mynda andlegan félagshring utan um Snæfellsjökul.

Þetta sem á milli ber eru ekki nema smámunir. Hitt er víst og varðar mestu að Staðarsveit og Breiðavík er einhver allra bezti bletturinn á öllu landinu, og þó í kaldakolum. Aðalbótin er að fá nýtt fólk til að nytja jarðirnar. Því mun nú svarað í sveitunum, að þar séu ekki góðir bændur aflögu, til viðreisnar Snæfellsnesi. En er ekki vegur til þess að menn, sem dálítil efni hafa og vinnuþrek, taki sig upp úr kaupstöðunum og fari þangað? Slíkt ætti helzt að gjörast með samtökum svo að nokkuð margir færu í senn. Og nokkuð má gera af hálfu hins opinbera til að hvetja menn til slíks landnáms, og sérstaklega liggur það beint við, þar som jafnmikið er af þjóðeignum eins og á Snæfellsnesi. Eg átti tal um þetta, að því er landssjóðsjarðir snertir, við umboðsmanninn, Einar kaupmann Markússon í Ólafsvík. Hann nefndi meðal annars það, að verja um nokkurt áraskeið landsskuldinni — ekki leigum — til jarðabóta, lofa ábúendunum að vinna með þeim hætti af sér landsskuldina, og stakk upp á að dagsverkið væri metið á krónu. Með leiðbeining og eftirliti væri það vel gjörlegt. Séra Vilhjálmur Briem fór fram á það við aukaþing-

ið síðast, að árgjaldið af Staðastað, 300 kr., væri afnumið með lögum — brauðið ekki hálft við það sem það var, — en hann lýsti jafnframt yfir því, að hann mundi láta árgjaldsupphæðina óskerta ganga til jarðabóta á jörðum prestakallsins. Aukaþingið vildi ekki taka slíkt mál til meðferðar, og bíður það þingsins að sumri. Þingið er jafnan tregt á að afnema árgjald með lögum, en hitt ætti að vera auðsótt mál, að þingið heimilaði á fjárlögunum að verja árgjaldinu til viðreisnar prestakallinu. Slíka heimild má veita þar sem manninum er vel treystandi, sem með á að fara, og þeir sem séra Vilhjálm þekkja, efa ekki ráðdeild hans og farsælan vilja. Slík heimild yrði síðan endurtekin um næstu fjárhagstímabil, meðan þörfin væri og sýnt og sannað að vel væri farið með. Samskonar heimild hefir verið i fjárlögunum um tvö skeið, að verja megi alt að helmingi afgjalda í hverju umboði til umbóta og breytingar á leiguhúsum þjóðjarða, sem eflaust verður gert áfram, og kemur að enn meiri notum er „byggingarannsóknirnar“ fara að bera ávexti. Séra Vilhjálmi þætti auðvitað tryggilegra að þetta væri með lögum bundið um 10—20 ár, en hitt er auðsóttara og kemur vonandi að sömu notum; viðreisnin tekur allangan tíma, og þingið kippir vart að sér hendinni. Féð gengi auðvitað mest til að húsa kirkjujarðirnar eyddu og álagslausu — og húsa þær vel, sem í byggingu komast. Væri svo tök fyrir sveitina að fá og nota að marki jarðabótalán, kæmist einhver skriður á.

Það er svo sem ekki eingöngu vegna Snæfellsness, að mörgum hefir til hugar komið, hvort enginn vegur væri til að fá vinnukraft inn í landið frá útlöndum. Hermann alþingismaður á Þingeyrum vakti sérstaklega máls á því við Búnaðarfélagsstjórnina í sumar, og gjörði sér vonir um að geta fengið hingað vinnufólk frá Danmörku; en okkur þótti efasamt, hvort hér væru staðir sem vildu gjalda nógu hátt kaup. Annar vegur væri sá, að hingað flyttust menn sem keyptu sér land og settu upp mjólkurbú. Eg hefi ritast á við Feilberg, vorn góðkunna Íslandsvin, um þetta efni. Hann segir mér

að valinn vinnumaður danskur taki 300 kr. í árskaup, og muni hann vilja fá hundraðinu betur erlendis, auk ferðakostnaðar, og er þá komið töluvert upp úr því sem hér er goldið, nema ef vera skyldi í stað og stað í Múlasýslum. Feilberg hyggur farsælla að koma mönnum héðan fyrir tilstuðlun Búnaðarfélagsins danska í ársvistir í Danmörku, þar sem fyrirmyndin er góð og nokkur tilsögn. Aftur á móti taldi Feilberg það fremur sennilegt, að ungir menn (bústjórar), sem eigi hafa fé milli handa til að kaupa sér búgarð í Danmörku fyrir marga tugi þúsunda, fengjust hér upp til landsins, þar sem koma má upp stóru kúabúi fyrir langtum minna fé. Nú mun hjá sjálfum Dönum vera vaknaðar hugsanir í þessa átt, en eigi nokkuð að verða úr framkvæmdum, þurfa menn þaðan að koma hingað til þess að hafa sjón af landinu. Feilberg stingur upp á því að Búnaðarfélagið hérna veitti 500 kr., og mundi þá ekki standa á öðrum 500 kr. frá Búnaðarfélaginu danska og með þeim styrk mundi mega koma á kynnisför nokkurra danskra bænda og búfræðinga til landsins. Vísast mundi þeim ekki þykja fýsilegt að bera niður vestur á Snæfellsnesi, en nóg er þá af góðu landi fölu nyrðra og syðra, t. d. hérna við brautina austur, þar sem Þjórsá geymir áræðinu og peningunum þúsundir kýrfóðra (Skýrsla Búnaðarfél. S. A. 1894). Það er eigi efamál að slíkur innflutningur yrði hið mesta happ, ef oss héldist betur á þeim en bændunum józku, sem hingað komu um miðja 18. öld. Það hefir og komið til tals, milli okkar hér og Íslendinga í Höfn, að vísa Finnum til bústaða hér; þeir flýja nú land sitt þúsundum saman, og leita sér heimkynna fyrir vestan haf. Þó að sú tilraun verði görð með blaðagreinum í finskum blöðum, er hætt við að hún beri lítinn árangur, en viðleitni væri það, og Finnar hafa bezta orð á sér. Verst hvað íslenzki barlómurinn hefir ófrægt landið fyrir útlendingum.

## V.

Eg verð aftur að hverfa að ferðasögunni. Á Staðastað hitti eg á fjölmennan héraðsfund, en dagur var kominn að

kveldi og gat eg lítið tal haft af mönnum í það sinn. Næsta dag kom allmargt til kirkju, og dylst eigi gestsauganu að „úáran er komin í fólkið sjálft“. Mikil eru tún á Staðastað en í litilli rækt, en eg vona að séra Vilhjálmur eigi þar, áður en lýkur, jafnmargt í fjósi og Þorgils Skarði. Fyrsta nauðsynin, þar sem rétt alstaðar um Snæfellsnes, er að girða. Vegur er annálaður vestur Staðarsveitina. Vötnin á þessari flatneskju mintu mig eitthvað á Melrakkasléttu, en hér veit mót suðri, og sandur í öldunum, kalkborinn, og er það auður fyrir sig, þegar menn kunna að nota. Í Görðunum sýnist vera ágætt kartöpluland og tún svo víð, sem á verður borið, og allt slétt. Garða hefir nú keypt maður úr Reykjavík og fer þangað í vor, fyrsti landnámsmaður bygðarinnar á 20. öld. Vestar nokkru er Hólkot, austan megin Hraunhafnaróss, sem nú heitir Búðaós. Í Hólkoti býr formaður búnaðarfélags Staðarsveitar, Björn Andrésson. Í félaginu eru um 20 manns, eru 2 Breiðvíkingar í því, af því að Breiðuvíkurhreppur ber ekki sérstakt félag. Félagið er fremur smávirkt, sem við er að búast, helzt gætir þar nýrra sáðgarða. Mér var áður orðið meinlaust við þennan Björn í Hólkoti af bréfi, sem frá honum kom til Búnaðarfélagsins í fyrra vetur. Við áttum ekki von á, að þar um slóðir væri hugsað um trjárækt og prýði kringum bæina. Sæmundur heitinn Eyjólfsson hefði haft yndi af að heimsækja gamla Björn; af öllum hans verkum þar, og úr hverju hans orði skein svo mikil rækt við býlið. Gimsteinninn var þó garðurinn hans með trjárunnum og ýmsum gróðri. Jörðina keypti hann fyrir 7 árum af landsjóði fyrir 1100 kr., hún 9 hndr. full, er í beztu rækt, gullfallegar engjar út frá túninu, hægar til áveitu.— Hana vantar ofvíða, elskuna til móður-moldarinnnar, og því lætur Jónas Eggert kveða í Hulduljóðum:

. . . „veitt hefir Fróni mikið og margt
miskunnar faðir; en blindir menn
meta það aldrei eins og ber,
unna því lítt sem fagurt er,

telja sér lítinn yndis-arð
að annast blómgaðan jurtagarð.“

Ekki er ofsögum sagt af því hvað fagurt er á Búðum, ekki sízt þegar fallið er inn í ósinn. Yrðu greiðar og vissar ferðir á sjó, skil eg eigi annað en kaupstaðabúar hændust þar að til sumarvistar, viku eða hálfsmánaðar tíma. Húsakynni eru yfrið nóg og góð. Þar má leika sér við veiðiskap og tína ber um Búðahraun, gróður einkar fagur og fágætur og margir blettir til söguminja í kring. Litprýðin í náttúrunni hefir einhvern vegin læðst inn í fólkið, því að gaflarnir á tómthúsunum voru fagursteindir. Kjartan fylgdi mér vestur hraungötuna að Búðakletti og Búðahelli, og þaðan upp um hraunið á sýsluveginn uppi undir fjallinu, fram hjá Ígultjörn Axlar-Bjarnar, þar sem hrauninu slítur; kemur hún prýðis vel heim við söguna, því að hraunskúti felur alt sem í pyttinn er látið. Frá Búðakletti breiddi Víkin faðminn á móti okkur, svo góðleg og tilkomumikil, með Jökulinn upp af sólroðinn. Arnarstapi er þar beint á móti,

„og ljósbláir reykir í logninu síð
sér lyftu við iðgræna rinda“.

## VI.

Breiðuvíkinni er svo vel lýst af Kjartani Þorkelssyni að eg hefi minstu við að bæta. Eg stóð við hjá Knerri. Það forna höfuðból er komið í eyði. Túnið sprettur þó í skjólinu undir hamrasyllunum, og niður undan eru engjarnar, þar sem 18 vetra unglingur sló á 18 þurrabandshesta á dag af kýrgæfu heyi. „Hér mætti byrja með 40 kýr á Knarrarengjum einum“, sagði eg við förunauta mína, og var mér svarað, að meira mætti taka upp í sig. Knörr og Selvöll og Knarrartungur tvær — en þau tún liggja öll saman — mætti fá fyrir mjög lágt verð, eins og nú stendur, Selvöllur er í eyði, en Knarrartungur munu báðar vera bygðar. En svo er kostnaðurinn að byggja, byggja vel yfir kýr og hey, baðstofan á Knerri er allstæðileg og dygði dálítið. Hefði þar verið hjá mér hópur greindra og gildra

bænda, einhversstaðar að úr landinu, og þeir litið alla þessa óumræðilegu björg og blessun ónotaða fram undan sér, mundi hvern þeirra hafa munað í slík gæði, en þó að lýsingin hér að framan berist þeim, og þeir efi eigi að satt sé sagt frá, er hætt við að sárfáir láti freistast. Það er búskapurinn í stórum stýl, sem menn eru nú hræddastir við, og ekki ástæðulaust, meðan þilskipaveiðin keppir um vinnukraftinn svo stjórnlaust og staðlaust. — En eru þá hvergi á neinni kaupstaðarmölinni einir 5 röskir menn, sem sjálfir vilji leggja fram vinnukraftinn í félagsbúi? Hugsunin ekki óskemtileg; og eitthvað var til í þá átt í Þingeyjarsýslu í mínu ungdæmi.

Það horfir annars illa og um leið svo öfugt — að minni hyggju — þetta, að stóru búin verða nú harðast úti á þessum örðugu tímum. „Býsna þarf til batnaðar," og skellurinn af ráðlausu kaupgjaldi útgerðarmanna er óumflýjanlegur. Höppin að kaupa skipin undir hálfvirði eru búin að vera, og útgerðin ber sig langt frá of vel nú með *háa* fiskverðinu, hvað þá er breytist? Skynsamleg samtök, er trygðu það að góðir dráttarmenn, og ekki aðrir, stunduðu þá atvinnu, rjúfast. Samkepni og enda nokkuð stríð verður að vera milli atvinnuveganna, og verður að sætta sig við það, allir erum vér landsins börn, en hörmulegt er það, er samkepnin er stór-óskynsamleg, báðum atvinnuvegunum til tjóns. Þegar breytingin verður, þá rísa upp stóru búin vona eg — og óðala-ástin forna, vildi eg mega bæta við — þau eru sennilegust að bera sig stóru búin, vitið mest, og minstu til kostað móts við afurðir. Er það nokkur vegur að maður lifi með fjölskyldu með þeim hætti að vera *bundinn*, *verklítill* við 20—30 kindur árið um kring, þó hann eigi að auki 1 eða 2 kýr? Búnaðarskýrslurnar sýna það bezt að slíkir eru margir í landinu. Þegar framtalið kemur frá bæjarleyfis-umsækjendum í Reykjavík — þeir geta verið þetta um 20 á fundi, og þá er tíundað vel, — blöskrar manni, hvað fjáreignin er lítil. Það verða að koma upp stórbú í kostasveitunum, með húsmannabýlum í kring, þar sem skepnueignin væri 4—6 kýr, en engar kindur, á

vel ræktuðum girtum blettum, með fullum eignarrétti yfir landskikanum. Vinnan sjálffengin mikinn hluta ársins, í beggja þökk, á stóra búinu, og drjúgir aurar fyrir rjómann, látinn í smjörbúið. Eg vék að þessu fyrir þrem árum í Búnaðarritinu og hefi víða vakið máls á því. Mótbárurnar hafa auðvitað mint á fjárskortinn, og þó enda meira á annað — því að áræði og dugnaður draga langt — að húsmenska í sveit hafi gefist svo illa, en það segir ekkert. Reikningurinn hefir verið ramskakkur. Fyrsta og síðasta skilyrði til þrifa er að skilja hvað ber sig og borgar. Á því þurfa allir þeir, sem veginn vilja vísa í landbúnaðinum að klifa ár og síð. En húsmenskubýlin eftir minni hugsjón og von — girt og alræktað sjálfseignarland eingöngu fyrir kýr — geta nú fyrst komið upp, þegar og þar sem rjómanum verður komið í enska peninga, og fyrir þau býli finst mér eg geti gjört upp reikningsdæmið svo að lífvænlegt verði. Í þessum stjórnlausa straum til kaupstaðanna — eg tala eftir kunnugleika mínum í Reykjavík — er mikill partur, enda meiri hluti þessa innflytjanda fólks, ungt fólk, sem engan veg sér til að taka saman og sjá fyrir sér og börnum sínum í sveitinni, eins og nú á stendur. Það er ekki tóm „kaupstaðarsótt" að fólkið flýr sveitirnar. Þetta unga fólk mundi margt verða kyrt áfram í sveitinni, sæi það sér afkomu þar. Það er brýn skylda að hjálpa því til þess. Ef menn nú kannast við, að þetta ástand sem er, þessi gegndarlausa eyðing sveitanna, er á alla grein voði fyrir þjóðina, og fái trú á svona breyttu búskaparlagi fyrir meiri eða minni hluta landslýðsins, þá verður að leggja mikið í sölurnar, til að koma slíkum húsmannabýlum upp, sem hér hafa verið nefnd. Í Búnaðarritinu 1900, bls. 74—75 er lítið eitt skýrt frá því, hvernig slíkri hjálp er fyrir komið í Danmörku. Og samhliða slíkri ræktunarvon landsins, með samþyrping fólksins, er siðmenningarvonin með skólahaldi og félagssamvinnu í ótal greinum.

Eg gleymi ferðinni, en þetta var eg að hugsa, er eg horfði yfir þennan góða blett, sem landið á þarna undir Jöklinum. Eftir var Kambsskarð áleiðis til Ólafsvíkur.

## VIII.

Ólafsvík[1] hefir dregið til sín kaupstaðinn frá Rifi, klausturhaldarann frá Ingjaldshóli, kirkjuna -- jafngamla landsins kristni — frá Fróðá; kipt prestinum burt af Þæfusteini, og bætt síðan lækni við; hún virðist því — sem stendur — vera uppgangsbær, og fólksfjöldinn þrefaldast á 10—12 árum, nú um eða yfir 600.

Þessi blómi er allur, eða mestur, að þakka útveg á opnum skipum. Ólafsvík er ekki og verður ekki verzlunarbær að marki. Höfnin er fyrir opnu hafi og á landi er bygðin lukt fjöllum og torfærum á alla vegu. Greiðast aðkomu er sunnan yfir Fróðárheiði, og eiga Staðsveitingar þar margt sporið að vetrinum, er þeir fara út yfir til að koma sér í róður, eða bara til að hirða molana sem falla af borði hins ríka — og liggja í fjörunni.

Kaupstaðurinn er ekki stór um sig, og þröngt er setið og sofið í mörgum þessum smáu húsum, sem reyndar mun nú mega segja um flest sjótúnin okkar. Bærinn er annars ekki ólaglegur ofan af gilbrúninni, og víst ekki heldur frá sjó, þar sem hann rís þá í fangið á móti manni. Það er bæjarprýði í fossinum upp af og verður með tímanum bæjargagn af læknum sem þaðan fellur og klýfur þorpið, nýtist þá hvergi vatnsaflið, ef ekki mitt í margmenninu við höfn. Miklu meira vatnsafl er litlu fyrir austan í Fossá, sem er rétt nefnd svo, en hún rekur nú meira eftir með annað, því að á sú er allslæmur farartálmi, en hlýtur að vera auðbrúuð.

Séra Helgi Árnason, sem verið hefir prestur í Nesþingum um 20 ár, á mikinn og góðan þátt í framförum Ólafs-

1) Danskur kaupmaður í Ólafsvík, Plum að nafni, gaf út á dönsku árið 1800 nógu fróðlega bók um Ingjaldshóls og Fróðársóknir, og færir dr. Þorvaldur margt til úr því riti í „Ferð um Snæfellsnes sumarið 1890“ (Andvari XVII). Þessari bók Plums fylgir mynd af Ólafsvík, þar sem 4 smá verzlunarhús standa, að því er virðist á sama stað og aðalbúðin nú. En svo er eigi annað að sjá á myndinni en 2—3 tómthús og ofurlitla garðholu, en í byggingarbréfi fyrir Ólafsvík eru um það leyti 6 grasbýli talin að vera í landareigninni og 3 þurrabúðir.

víkur síðustu 10—20 árin. Hann vann að því að barnaskóli komst þar upp fyrir 15 árum, en forgangsmaður þess verks frá upphafi var tengdafaðir hans Torfi heitinn faktor Thorgrimsen. Um 40 börn eru á þeim skóla. Sparisjóður var stofnaður nokkru síðar, og er séra Helgi í stjórn sjóðsins; var þar kominn 1000 kr. varasjóður. Bindindisfélagsskapur er þar öflugur, og verzlanir hafa ekki áfengissölu. Það mun hafa verið fyrir forgöngu bindindisfélaganna, með styrk frá sveitinni og sparisjóðnum og fyrir gjafir einstakra manna, að verið var að reisa úr steinsteypu stórt og einkar myndarlegt samkomuhús fyrir kaupstaðinn, og var búist við að það mundi kosta tíu þúsundin full, og er það áræði af ekki fjölmennara og efnaðra félagi. Fyrir Reykjavík eru 100,000 kr. mikið minna fé, en ekki leggur hún enn í að koma sér upp samkomuhúsi; — ráðhús höfuðstaðarins er leigusalur.

Séra Helgi er formaður búnaðarfélags Neshrepps innan Ennis. Sjálfur hefir hann ræktað bletti úr vondri jörð, svipaðri og hér í Reykjavík, unnið undanfarið þetta um og yfir 100 dagsverk á ári. Helztu jarðabætur félagsins eru sem stendur í sjálfri Ólafsvík, lítið um mjólk þar og hún dýr. Garðrækt er þar lítil, enda liggur ekki vel við í sjálfri Ólafsvík, aftur hlýtur að vera gott til kartöfluræktar á Brimilsvallanesinu.

Umboðsmaðurinn, Einar kaupmaður Markússon, er ábúandi jarðarinnar Ólafsvíkur og hefir mikið bætt tún jarðarinnar. Þar bregður til fornrar venju, en þó með alt öðrum hætti en fyr. Lengst af var í gamla daga Ólafsvíkur-kaupmaðurinn jafnframt ábúandi þessarar umboðsjarðar, með öllum grasbýlum hennar og þurrabúðum, hann var „forsvarsbóndinn“ gagnvart hinu opinbera, en var svo einráður yfir býlunum, og gjöldin af þeim gengu í hans vasa. Nú er auðvitað, en þó eigi fyrir svo löngu síðan, ákveðið víst gjald til landssjóðs af húsalóðunum og á sjálfu kaupstaðarsvæðinu er lóðargjaldið 30 a. af hverjum 100 ferálnum þegar timburhús eru reist, en 50 a. undir bæi og torfhús. Ekki

spurði eg hvað gjaldið er mikið alls, en það hefi eg heyrt að þar á undan hafi ábúandi Ólafsvíkur haft 10 sinnum meira lóðargjald, en eftirgjaldið var af jörðinni. Túnblettirnir eru látnir á leigu um 100 ár, falla þá endurgjaldslaust aftur til landssjóðs. Fyrir dagsláttu tekið c. 4 kr. í ársleigu.

Þegar saman rann hér áður kaupmannseinokunin og einveldi landsdrottins má ráða í áþján almennings. Og hvernig andinn var, getur maður ráðið af því, að Arnarstapa-umboðsmaðurinn beinlínis tilskildi í byggingarbréfi sínu fyrir Ólafsvík — eg hefi hér fyrir mér prentað byggingarbréf frá árinu 1787 —, að kaupmaðurinn léti fólkið í „plássinu“ róa á bátum sínum, *„sem það væri skyldugt til eftir gamalli hefð og venju“*. Kaupmaðurinn átti meira að segja að tryggja þennan góða gamla sið með sérstöku ákvæði í byggingarbréfunum, sem hann gæfi fyrir býlunum. Umboðsmanninum þótti vissara að taka þetta svona skýrt fram, svo að ekkert misrétti gæti átt sér stað í þessu efni um Snæfellsnes, hann gleymdi ekki „mannslánunum“ að Ingjaldshóli, þegar hann var að byggja jarðirnar sjálfur blessaður.

Snæfellsnes með klausturjörðunum hundrað, eða hvað þær nú voru margar, og með verstöðunum góðu í kring um Jökulinn, var fremur flestum hlutum landsins kongsland og kaupmanna, þar sem á komst miklu meira ófrelsi en annarsstaðar, þeir voru svo sárfáir sem áttu með sig sjálfa og gátu notið sín, og hér er sjálfsagt ein mjög svo veruleg orsök til úrkynjunar fólksins og hnignunar þeirra héraða.

Landssjóður er eflaust góður landsdrottinn fyrir Ólafsvík, en óeðlilegt er það, að stórt bæjarfélag rísi upp án þess að eiga með landið sem það lifir á. Verðmæti landsins skapast og vex með fjölgun fólksins, og það ætti að koma fólkinu til góða, sem kemur þessu „lóða“-verði á jörðina, og væri jafnframt hin sterkasta hvöt fyrir fólkið að gjöra sér félagseign sína enn verðmætari. Það er sjálfgefið, að þing og stjórn selur ekki neinum einstökum manni slíka fasteign sem Ólafsvík, en félaginu í heild sinni ætti

að selja fyrir sanngjarnt verð. Eg veit eigi hvort nokkrar slíkar umleitanir eru hjá Ólafsvíkurmönnum. Bæjarréttindi geta þeir eigi hugsað um, eins og nú hagar lögreglustjórn og dómgæzlu í landinu. En hver veit nema standi til gagngjörðra breytinga í því efni?

## IX.

Hann er ekki langur vegurinn undir Enninu, út að Ingjaldshóli, en óskemtilegur er hann í grjóthruni og mildi hvað slysin eru fá. Þá er komið í Neshrepp ytri, er þar fremur frítt land, undirlendi allmikið og að kalla slétt. Kirkjan á Ingjaldshóli ber sig prýðisvel í miðri bygðinni, uppi á hólnum, og var mér gleði að heyra að fallið væri frá því ráði, að flytja hana þaðan. Hugur var í mönnum að reisa hana upp úr steinsteypu. Hér var áður fyrr einhver hin fjölmennasta sókn landsins og stærsta kirkjan, og enn er hún óvenjulega stór, 28 álnir á lengd, en mælt er að kirkjan hafi tvisvar verið minkuð að mun, og sér enda fyrir því. Sitthvað í kirkjunni, legsteinar í kór og fleira, minnir á fornan auð og veg. Eg skaut því að þeim, og tók dæmið frá Bessastaðakirkju, að svo framarlega sem kirkjan yrði gjörð upp úr steinsteypu, þá skyldu legsteinarnir greyptir í veggina, og verða slík söguspjöld eigi betur varðveitt frá sliti og brotum.

Skamt fyrir neðan Ingjaldshól eru fiskiþorpin Keflavík og Hellissandur, eða Hjallasandur öðru nafni, og nýskeð löggiltur með því nafni. Þorpin liggja saman í mikið til óslitinni húsaröð á sjávarbakkanum; bygð aukist þar mjög mikið síðustu árin, og um 200 manns sagðir á Sandi einum, og ef eg man rétt um 100 í Keflavík. Túnin upp af Sandi heyra til umboðsjörðum tveim Munaðarhóli og Hallsbæ og einhverjum fleirum grasbýlum út úr þessum jörðum, en við mannfjölgunina eru þurrabúðarmennirnir orðnir í miklum meiri hluta, og svara lóðargjaldi, uppsátursgjaldi — það eins tekið af innlendum — og mótolli til á-

búenda jarðanna, getur það numið framt að 20 kr. af þurrabúð, og var mér sagt að ábúandi Munaðarhóls gjörði betur en að búa eftirgjaldslaust.

Búnaðarfélag er í Neshrepp utan Ennis, og dálítið eru þeir með Sendir, að slétta og hlaða garða úr hraungrjótinu, en langt oflítil mót sjást þess, að þeir sem að grasbýlunum sitja, hafi komist upp á það að gjöra blettinn sinn að sparisjóði fyrir ónotaðar vinnustundir. Auðvitað eru þeir allir leiguliðar, en hitt vantar þó meir, sem jafnan, að enginn gefur dæmið — byrjar.

Þarna á Sandi verður fyrirsjáanlega áfram allstórt fiskiþorp, og margir vel vinnandi menn því bundnir heima við allan ársins hring. — Þarna, „utan við kjálka láðs“ hljóta landlegudagar að vera mjög margir, en enga aukavinnu að hafa í landi, geti maður eigi orðið sinn eigin vinnuveitandi. — Þarna upp af er vítt land vel ræktanlegt; gæfi strax nokkuð af sér, ef tylt væri upp vörzlu-görðum, og áburður feikna mikill frá sjófanginu. — Þarna er loks landið almennings eign — þjóðeign, svo að hægt er viðgjörðar, vilji menn taka upp einhverja nýjung, t. d. með ævarandi erfðafestu á 8—12 dagsláttu landi, sem eftir 8—12 ár og enda fyr gæfi iðjumanninum í „þurrabúðinni“ tveggja kúa nyt.

Það er margur „Sandurinn“ hér á Íslandi sem svona stendur á, nægur vinnukraftur, nægur vinnutími og nægt land og gott, rétt hjá, fáanlegt. En það er hægt að leiða hestinn að læknum, en enginn lætur hann drekka nema hann sjálfur vilji, og eins er það, að allar hugvekjur og öll verðlaun og allir styrkir, alt þetta verður fánýtt, ef ekkert er framtakið í fólkinu sjálfu.

Eg var mestan hluta dagsins úti á Sandi að bíða eftir Lárusi Skúlasyni, formanni búnaðarfélagsins; hann var á sjó og kom seinastur allra að. Veður var hið blíðasta, um 10—20 skip höfðu róið, alt innlendir þann tíma árs. Eg veitti því eftirtekt um nokkur skip, að það tók réttar 20 mínútur í land, frá því seglið kom upp, undanhaldið í

hægri útrænu. Allir seiluðu fyrir utan lendinguna, og það eins í kvikuleysinu, af föstum vana. Laglegur sýndist mér aflinn, fiskurinn svo jatnvænn, en ekki þótti þeim mikið þann daginn, vanir því utan Ennis að færa að landi það sem borðið ber. Einir tveir fisktökumenn eða fleiri voru þar á Sandi frá verzlunum í Ólafsvík, og ef til vill víðar að, og vissi eg ekki betur, en að alt væri lagt inn af hnífnum.

Mér þótti gaman að tala við Lárus Skúlason, hann er gerðar og gagnsmaður, en nú við aldur. Hann var mesti hvatamaður að því að koma upp skólanum á Sandi, sem er nokkuð yngri en Ólafsvíkurskólinn, gaf hann til Sandaskólans 200 kr., en 100 kr. til hins.

Um kveldið fórum við annan veg inn til Ólafsvíkur, bak við Ennið, eftir Ennisdal. Uppi undir fjallinu norður af fossinum í Laxá, sem er hin gamla Hólmkelsá, kom eg að glöggum rústum á smáþýfðri grund, þar stóð bær Hólmkels, Foss, og einmitt þarna niður af rústunum „stóðu þau tvö í túni“ Víglundur og Ketilríður. — Ennisdalur er tröllavegur og liggur hátt, uppi við jökulrætur, en fagurt var að líta yfir þennan slétta blett vestur af, með nesjum og vogum. Rifið var beint undir fótum manns, þar nú fylt og spilt af sandi, sem flestar vorar fornu hafnir.

Þessi blettur var lengi vel talinn gullkista landsins. Í Eftirmælum 18. aldar telur Magnús Stephensen að afturkippurinn í útveginn við Jökul hafi komið um miðja 18. öld, þegar netabrúkunin hófst syðra. Þá flyzt gullkistan til Faxaflóa sunnanvert. Allir vita hvernig komið er fyrir Jöklurum, og hinum hefir ekki orðið betur úr björginni en það, að alþingi varð alveg nýskeð, að gefa sýslunni hér suður með sjónum 10000 kr. til styrktar og framfærslu. Þetta eru nú sporin eftir sjávarútveginn, þar sem hann hefir staðið í mestum blóma. Sjórinn er góður fyrir sig, og mönnunum vitanlega að kenna þegar hann blessast ekki betur en þetta.

Eg verð að gera hér dálítinn útúrdúr til enn eldri tíma. Árið 1340 var dómur haldinn í Björgvin um tíundargjaldskyldu Íslandsfara til erkibiskups, og segir þar svo,

„að fyrir skömmu fluttist lítil skreið af Íslandi, er þá var kallað matskreið, en í vaðmálum hinn mesti varningur, en nú flyzt og af Íslandi hinn mesti og bezti varningur í skreið og lýsi".

Það voru góðir tímar fyrir landbúnaðinn, er Noregur fékk héðan feitina, og vaðmálin, „gæði sem það land mátti ekki missa". Noregur þurfti ekki að sækja fisk hingað, en undir lok 13. aldar fer verzlun Noregs æ meir og meir að komast í hendur þýzku borganna, og þær vilja fiskinn fremur öllu, og þær geta borgað, en kaupþoli Noregs fer sihnignandi. Að vísu fá þýzku borgirnar eigi að hafa bein skifti við Ísland, en Íslandsfararnir norsku frá Björgvin verða þeim algjörlega bundnir og háðir, og kaupa fyrir þá það sem þeir girnast mest. Breytingin á verzluninni breytir þá mjög svo atvinnuvegum landsmanna, og sá mikli hnekkir sem þaðan kemur landbúnaðinum er aðalþátturinn í afturförum Íslands, og felst hollur lærdómur í því að athuga þá grein sögu vorrar.

## X.

Frá Ólafsvík varð eg að fá mér fasta fylgd inn í Dali, fékk eg sem fylgdarmann Einar son séra Þorkels heitins á Staðastað, er Einar ákaflega sögufróður maður, og þá eigi sízt um Snæfellsnes, og rak eg mig oft á, að hann kunni Eyrbyggju mun betur en eg. Eg hafði mist einn dag, en var tímabundinn við fundarhald í Dölum, og fór því greiðara yfir norðanmegin fjallanna, tók mig þó 3 daga sama leiðin, sem sagt er að Daði í Snóksdal hafi riðið á 10 stundum einhesta á Brún sínum.

Það er einkar grösugt land upp af víkinni milli Ennis og Búlandshöfða, og er undirlendið talsvert, og mikið betri ástæður þar til landbúnaðar en flestir mundu ætla um slíkan útkjálka. Fróðá er mikil jörð með mörgum hjáleigum og niður af því hverfi og dálítið innar og austar er Brimilsvallanesið, ber það allhátt upp, frjótt land og fagurt. Þar má heita þorp, því að býlin eru svo mörg í kringum hið forna höfuðból, og munu flest hafa einhverjar grasnytjar. Þar

væri nú ekki lengi verið að fá upp húsmennskubýli með nægu kúahaldi til að lifa á, landið svo vítt og frjótt, og samlögin hæg við Fróðárhverfið um smjörbúið, og örstutt í kaupstaðinn. Nú býr á Brimilsvöllum Bjarni Sigurðsson, er áður var á Hofi á Kjalarnesi, myndarmaður, en allur áhugi og kraftur veit hér út á sjóinn.

Nokkru austar en Brimilsvellir, við sjálfan Höfðann, er Mávahlíð, að vísu ekki önnur eins plógsjörð nú, en engu ófrægra setur. Þar var Magnús lögmaður Jónsson seint á 17. öld, ríkur höfðingi er mikið kemur við sögur, átti hann líka Brimilsvelli og gott þótti þar þá til landa, og eigi síður til meyjar, og því kvað Gísli son Bauka-Jóns:

Held eg bezta hlutskifti,
hverjum það til félli,
að mega eignast Margréti,
Mávahlíð og Velli.

Gísla varð líka að ósk sinni, og út af hjónunum í Mávahlíð, þeim Gísla Jónssyni og Margréti Magnúsdóttur, komu kynmæður Finsena og Stephensena, og Brimilsvellir voru í ættinni til þess er menn Hannesar-dætra biskups seldu Vellina um miðja öldina sem leið Pétri gamla Ottesen, sem enn lifir á Ytra-Hólmi, en var þá mestur sjógarpur undir Jökli.

Lengi hefir verið illa látið af götusneiðingnum utan í Búlandshöfða, en fyrir þá sem ekki sundlar af hæðinni, er gatan alls ekki ægileg á sumardag, enda tekur fljótt af og ljótari eru Njarðvíkur-skriður eystra. Þá er komið í Eyrarsveitina. Doktor Kålund, sem annars er svo útsláttarlítill í Íslands lýsingu sinni, sleppir sér alveg þegar hann kemur í Eyrarsveitina, og lofar hana ákaflega mikið fyrir fegurð og tilbreytni. Og víst er um það, að á þessari leið, sem maður fer „inn um fjörðu“, ber sérstaklega margt nýstárlegt fyrir augun. Þeir sem hvorki hafa séð frá sjó eða landi fjöllin stöku vestan Grundarfjarðar, fá ólíkt betri hugmynd um þau af matrósa-nöfnunum dönsku, enda hefir verið haft svo mikið við þau að setja þau á kortið: „Líkkistan“ (ɔ: Stöðin) og „Sykurtoppurinn“ (ɔ: Kirkjufellið) koma mér fyr-

ir sjónir sem breiðfirzkir Skrúðir, fjaraðir þarna uppi, og hafa það verið prýðisvel setnar jarðir af miljónum sjófugla fyrir þúsundum ára, og búa að því enn með gróðurinn. Firðirnir eru líka sér um sitt, teygja sig í lónum og vöðlum, þar sem sízt varir, alveg inn í fjallgarðinn og taka þar við ánum, sem þurfa ekki annað fyrir að hafa til að komast heim til sín, en að henda sér niður fossastigann, stall af stalli.

Það vantar svo sem ekki að náttúran íslenzka bæti þarna við sig mörgum nýjum og skemtilegum myndum, en þegar til mannaverkanna kemur, búskapar og bjargráða, þá er ánægjan farin. Jafnlítilfjörlegar og vesalar byggingar hefi eg eigi séð til sveita, jafnt yfir menn og fénað, baðstofuveggirnir eru að kalla engir, oflágir til að tylla sér á þá. Jafnt mannvirkja- og nývirkjalaust um tún og engi að sjá. Reyndar kom eg þar ekki er helzt hefir verið eitthvað gjört, því að búnaðarfélag er þar sem annarstaðar með 20 manns, og þó sléttað síðast $2^2/_3$ dagsl. Verst er girðingaleysið um túnin, eitur og drep alls búskapar um Snæfellsnes. Það eru ekki skrök, að túnin mintu mig sumstaðar á kompás, götuslóðarnir svo margir út frá bænum til allra himinsins átta. Eg hafði séð túnunum svo illa misboðið undanfarna daga, að þegar það kom fyrir í Eyrarsveitinni að flæður sjávar rak okkur upp í einn túnfótinn og bóndi kom og krafðist nafna til að geta kært, þótti mér mjög vænt um slíka hirðu — enda ekki ókyndugt að vera dreginn á kontórinn fyrir túnspell á slíku ferðalagi. — Leikar fóru svo að bóndi fylgdi mér góðan kipp og fræddi mig um margt, enda var hann einn í stjórn búnaðarfélagsins þar, og skildum við mestu mátar.

Samskonar harmatölu má þylja yfir hnignun Eyrarsveitar og Staðarsveitar beint suður undan. Þar norðanfjalls var um 1800 og fram yfir sérlega góð líðan og háar tíundir. Þetta, að bygðin er jafnt til sjávar og sveitar, minnir á það, að slíkt virðist vera einkenni þess, og manni liggur við að segja, einmitt orsökin til þess, að sveitir séu illa farnar nú á dögum, svo er t. d. Gaulverjabæjarhreppur í Flóanum

og Innri Akraneshreppur fyrir neðan Skarsheiði. Útræði mun enn nokkuð í Eyrarsveit, auk þess sem Eyrsveitingar fara út á Hellissand. Þegar eg stóð við á Setbergi, kom maður frá Hallbjarnareyri og sagði 70 í hlut þann daginn, og hefir þar verið „gott til blautfisks og búðarverðar“ fyrir holdsveikraspítalann fyrr meir.

Eg fór bæði of hratt yfir og hafði hvergi nærri jafnmiklar spurnir at landi og ástandi hér sem sunnanfjalls, og verð því að tala varlega. Það eitt mun óhætt að segja, að Eyrarsveit er hvergi nærri jafnlíkleg til verulega aukins kúahalds og sveitirnar á móts við að sunnanverðu. Sauðland mun víðast gott í Eyrarsveit, góð beit í þessum grænu rindum og röðlum. Grösugt er inn af Grundarfirði, og ekki vantar mýrarnar, en eigi þóttist eg sjá frá götunni hentug svæði til áveitu. Af búnaðarskýrslunni síðustu úr sveitinni sé eg, að Guðmundur bóndi Athanasíusson á Búðum hefir gert stórmikið að vatnsveitingum, hátt á 2. hundrað dagsverk, langstærstur jarðabótamaður sýslunnar árið 1901. Jörðin Búðir er undir Kirkjufelli, og er bændaeign og líklega í sjálfsábúð. Vísast eru þar meiri og betri skilyrði til kúahalds en eg sá, og væri það vel, því að reyndin mun verða sú, að það verða aðallega kýrnar sem landið rækta, og það verða smjörbúin sem hleypa upp kúnum, og salan til Englands sem smjörbúin geta lifað á. Þar er lífsvonin, og feit reynist mjólkin á Hólum — moldin íslenzka er góð.

Móland er hið bezta í Eyrarsveit. Annars mun það víðast gott um Snæfellsnes, minnist og sérstaklega að hafa skoðað góðan mó í Neshrepp ytri, var þar hnausamór, og ekki hlaupið að honum, því að afrofið var seilingarhátt, en þá 9—10 stungur niður. Í nesinu austan Kolgrafarfjarðar í Kolgrafarlandi er mógæðunum alveg viðbrugðið, sagt að vera „kolagildi“. Sú var tíðin að Eyhreppingar sóttu þangað mó yfir þveran Breiðafjörð. Sé, eins og mælt er, víðáttan óþrjótandi og liggi vel við sjávarflutning og gæðin svona mikil, er eigi óhugsanlegt að geti nytjast til vinslu með vélum og til arðsamrar sölu. Á Norðurlöndum er sívaxandi

hugsun á að nytja langt um betur en verið hefir þau gæði landsins. Á Jótlandi er nokkur iðnaður rekinn með móhitun, og sem stendur eru 40 smjörbú rekin með mó. Mótak fer stórum minkandi hér í Reykjavík, bærinn allur tekur vart meiri mó nú árlega en gamli bakarinn einn fyrrum, gerir það lágt kolaverð og dýr vinnukraftur, en hver veit nema mómýrarnar hérna eigi nú eftir að raflýsa Reykjavík. Vélavinsla kemur varla víða hér á landi um sinn, en allar líkur eru til að með litlum kostnaði megi stórum bæta móskurð til ómetanlegs hagnaðar fyrir landbúnaðinn, auk þess sem kenna þarf mönnum oð nota rof og mómylsnu stórmikið til áburðarbóta og áburðarauka. Á þessu ári hefir einkar líklegur maður, sem Búnaðarfélagið hefir veitt dálítinn styrk til utanfarar, tekið sér fyrir hendur að kynna sér í Danmörku alt sem að þessu lítur.

Páll gamli Melsteð, sem fyrir 50 árum þjónaði Snæfellsnessýslu, hafði beðið mig að skoða „torfskerann“ í Helgafellssveitinni. Þessi snæfelski móskeri er sérkennilegt áhald þar í nokkrum sveitum — í Hnappadals og Dalasýslu er skóflan.—Eg skoðaði móskerann og sá unnið með honum bæði í Eyrarsveit og Helgafells. Tréblaðið fram úr skafti er um $^1/_2$ alin á lengd, breiddin 5—6 þuml., járnvarið stendur um þumlung fram af. Öðru hvoru megin út frá járnvarinu — eftir því, á hverja hönd maður vill kasta —, kemur í réttu horni við blaðið, skeraeyrað eða hakið, hvasseggjað sem varið, 2—3 þuml. hátt; og ræður það þykt flögunnar er skorið er. Fyrst er holan stungin niður með skeranum — niðurskurður — en síðan, þegar rúmið fæst, er spænt eða flísað frá hlið. Bóndi sem stóð að þessu verki og áður hafði verið á Akranesi og þekti því vinnubrögðin að þessu hér syðra, taldi stórum betra verkfærið og vinnulagið vestur þar. Öll eftirvinna og þurkun er miklu hægri við flögumóinn, og hann sagður drýgri og betri til brenslu. Blaðið á einmitt að vera úr tré, hálu og föstu, loðir fremur við járnið.

Búnaðarfélagið mundi fúslega útvega sýnishorn að vest-

an og láta smíða eftir, ef einhverjir vildu reyna þennan snæfelska móskera.

## XI.

Tröllháls skilur Eyrarsveit og Helgafells, er Kolgrafarfjörður að vestan og Hraunsfjörður að austan. Innan til í Kolgrafarfirði vestanmegin kom eg við á Hrafnkelsstöðum til tals við formann búnaðarfélags Eyrarsveitar, Illuga St. Hjaltalín, hann er búfræðingur og skoðunarmaður jarðabóta í allri sýslunni. Botnarnir inn af báðum fjörðunum eru eða hafa verið í bygð, í Hraunsfirði er Árnabotn, kunnur af Þjóðsögunum, „þar sem aldrei sólin skín“. Mikið er látið af landgæðunum í þessum skvompum norðan í fjallgarðinum, en þó að rjóminn héldi steðjanum, er og verður óbyggilegt í slíkum afskektum afdölum. Það skyldi þá vera að þyrfti að halda uppi býli vegna umferðar á vetrum. Sjálfgefið afréttarland á svona stöðum. Bendingin var ljós á Kolgrafarseli inst í firði vestan Tröllháls. Á þeirri umboðsjörð hafði nýskeð verið lagt járn á baðstofu og bygð hlaða með járnþaki. Landsetar geta fengið af umboðinu fé til slíkra húsabóta, svara 4% og eiga að halda við. Það voru heldur viðbrigði eftir Eyrarsveitina að sjá járnið blika við á þökunum, en viti menn, býlið komið í eyði í vor sem leið, og verður það sennilega áfram, nema ef í þrá er kastað út enn meira fé úr landssjóði. En í hamingju bænum, ekki streitast við að halda í bygð örreitiskotum fjarri öllum bygðum, þar sem engrar siðmenningar er að vænta!

Þegar komið er yfir Berserkjahraun blasir við Breiðifjörðurinn með eyjunum og fyrr finst manni ekki vera kominn Breiðifjörður, en þær eru undan landi. Í Helgafellssveitinni er talsverður plógur af eyjum, sjálf er hún fremur mögur og nokkuð líkt má segja um Skógarströndina. Báðar eru sveitirnar slægnalitlar. Víða er þar uppblásið skógland og dregur til mela. Sauðland fremur en kúa, tún-útgræðsla víðast ekki létt, en borgar sig vel, þar sem slægnalítið er, en beitin góð.

Búnaðarfélag Helgafellssveitar er allfjölment og heldur lifnar nú yfir túnasléttun er innar dregur. Stykkishólmsbúar eru áfram í félaginu, þó að Hólmurinn sé hreppur sér. Formanninn, Hall Kristjánsson á Grísbóli hitti eg eigi heima. Annar maður í stjórn félagsins, er eg heimsótti, var Gísli bóndi Sigurðsson á Saurum, upp af kaupstaðnum, er það allmikil jörð með skógarkjarri, landssjóðseign. Gísli byrjaði þar með 60 hesta af túni fyrir 40 árum, en fær nú 200. Einna helzti forgangsmaður búnaðarframfara í Helgafellssveit skildist mér þó að væri Sigurður bóndi Guðmundsson á Svelgsá. Það er umboðsjörð, 5 kúgildi á 20 hundruðum. Sigurður mun manna fyrstur hafa reist hlöður, og verulega unnið að jarðabótum. Af túni fékk hann nú 250 hesta, en 100 fyrir 35 árum. Alt virtist mér sérlega vel um gengið hjá honum. Eg minti hann á Ræktunarsjóðinn, til að ýta undir hann að beiðast verðlauna, en nú hefi eg fyrir skemstu lesið í blaði, að þessi aldraði nytsemdarmaður sé látinn.

Eg hafði ætlað mér að skoða hið forna höfuðból Bjarnarhöfn, en áfangar stóðu svo af sér að ekki varð af því. Það er sorglegt dæmi um ástandið, að jörð sú getur vart heitið í byggingu; er nytjuð frá Stykkishólmi. Hið annað forna höfuðból sveitarinnar, Helgafell, mun vera betur setið sem stendur; bóndinn þar Jónas Sigurðsson, er hæstur í jarðabótaskýrslu sveitarinnar síðastliðið, og leggur landsdrottinn, Sigurður prófastur Gunnarsson, fé til jarðabótanna. Öllu skjóllegra býli hefi eg eigi séð en Helgafell, sunnan undir fellinu samnefndu, í hvammi dálitlum upp af litlu stöðuvatni. Öll okkar helgu Fell eru ein sér, með húsrisi, en ekkert hefir jafnheilagar söguminningar og þetta á Þórsnesi, og það jafnt í kristnum sem heiðnum sið.

Stykkishólmur er sérlega snotur bær, alveg með eyjasvip yfir sér. Mér hefir áður skilist það svo, og kannast víst fleiri við það, að Hólmurinn væri í afturför, og víst er um það að mikil eru húsin móts við mennina, ólíkt því sem er í Ólafsvík, en Hólmverjar eru ekki svo smeikir um sig, fanst mér. Bænum hefir nýskeð tæmst arfur frá manni þar,

sem varð ríkur á því að vera agent þilskipa-útgerðarmanna á Vestfjörðum, og er ekki nema maklegt að þessi útflutningsprémía á vinnukrafti Snæfellsness komi einhverjum hluta héraðsins að notum. Í annan stað er þilskipaútvegur nú að koma í sjálfum Stykkishólmi, ganga þaðan ein 4—5 skip. Þar sem þilskip leggur upp fiski kemur atvinna í landi, mest fyrir liðléttinga, þetta 1—2000 kr. um árið. Það er munurinn að flytja út vinnukraftinn eða nota hann heima. Núna t. d. eru 100 Akurnesingar á þilskipum sem héðan ganga, og þó að aflahæðin verði kannske meiri, bætir það bygðinni illa hinn eydda bátaútveg. Ólafsvík getur vegna hafnarleysisins ekki kept við Stykkishólm í þilskipaútgerð, Grundarfjörður er auðvitað nær því, og hann er fyrir utan eyjar og strauma og vergögn þar enda enn betri en í Hólminum, en þá kemur aftur það, að í Hólminum er nú einu sinni fólkið fyrir, sem getur átt skipin og verkað fiskinn.

Í annan stað má búast við því að Hólmurinn verði miðstöð allrar verzlunar við Breiðafjörð. Mér var sagt að auðgefið og ódýrt væri að koma þar upp stórskipabryggju, og innsiglingu má bæta með leiðarljósum. Að fara með allstór strandferðaskip inn í Skarðstöð, hvað þá inst inn í Hvammsfjörð, eru vandræði — ofdýrt. Getur maður ekki gert sér vonir um að mótorbátar komi að haldi á Breiðafirði og að þeir verði eign hlutafélaga við Hvammsfjörð og inn við Gilsfjörð og víðar, sem fái svo ríflegan styrk til að hafa ferðirnar reglubundnar. Eg ætla stóra vöruskipinu, sem færir og flytur, að koma beint frá útlöndum, nema hvað það auðvitað hefir farið um í Reykjavík; og eg ætla mótorbátunum að hafa nóg að vinna, þegar þeir koma í stað bæði opinna skipa og strandbáta — og bezt er að eiga bátinn sjálfur. Vitaskuld — þegar þetta er orðið, þá eru verzlunarhúsin í smáu kauptúnunum innfrá orðin að geymsluhúsum kaupfélaga.

Búnaðarfélag Skógarstrandarhrepps er mun eldra en búnaðarstyrkurinn, og mun félagið í fyrstu komið til fyrir forgöngu Guðmundar prófasts Einarssonar. Einn af stjórnendum félagsins, Magnús Márusson á Ytra-Leyti, sagði mér

að sú regla væri hjá þeim að sjálfseignarbændur fái $^1/_3$ minna af landsjóðsstyrknum tiltölulega en leiguliðar. Formaður félagsins er Jón Jónsson á Valshamri, kirkjujörð frá Breiðabólstað, hefir hann búið þar um 15 ár, sléttað um 6 dagsláttur, aukið töðu að helmingi, og er snild að sjá alla umgengni hjá honum. Myndarbóndi roskinn á innri enda sveitarinnar er Jónas Guðmundsson á Bílduhóli, hæstur jarðabótamaður í því félagi 1901. Þá mun og myndarbúskapur og góðar byggingar vera í eyjunum, en af því hafði eg ekki sjón. Á Breiðabólstað eru enn margar menjar hins ágæta búhöldar síra Guðmundar Einarssonar. Hann einn hefir í Snæfellsnessýslu fengið verðlaun af sjóði Kristjáns konungs níunda. Nú verður síra Jósef Hjörleifsson vegna heilsuleysis að láta af embætti og fara frá Breiðabólstað, og er mikil eftirsjá að honum sem góðum og nýtum félagsmanni. Hann gekkst meðal annars fyrir því að inn í sveitina voru fyrir skemstu keyptar í einu 11 skilvindur. Hann hefir reist þar vænt íbúðarhús og var í sumar sem leið, er eg var hjá honum, að sýna mér svo margt og margt, sem hann ætlaði nú að taka fyrir jörðinni til bóta.

Með eitt var Snæfellsnessýsla á undan árið sem leið, því að tilhlutun sýslunefndar og með verðlaunum úr sýslusjóði var fénaðarsýning haldin í Staðarsveit skömmu áður en eg var á ferðinni. Sárfátt kom þar af mönnum og fénaði. Sýningar geta vart borið sig annarstaðar en í blómlegu héruðunum, og verða þá fyrst að miklum og góðum notum, er kynbóta-félagsskapur og kynbóta-samkepni er komin inn í sveitirnar, og er það hvorttveggja, að sýningarnar spretta upp úr þeim jarðvegi og undirbúa hann líka. Að sjálfsögðu verða fénaðarsýningar framvegis að gjörast með rækilegum undirbúningi og með leiðbeiningu og aðstoð frá Landsbúnaðarfélaginu.

Skiljanlega var það alstaðar umhugsunar og umtalsefnið þetta, hvað gjöra megi til bóta fyrir hérað, sem er eins báglega komið og Snæfellsnes. Hér að framan er vikið að sumu — enda er nú hægast um að tala — en

allra næst hendi í verklegri framkvæmd, á undan öllu öðru, stendur það fyrir mér, að búnaðarfélag landsins hjálpi með ráðum og dáðum til að girða túnin — og það væntanlega víðast með gaddavír.

XII.

Fyrsti bærinn sem eg kom að í Dalasýslu voru Gunnarsstaðir í Hörðudalshrepp. Þar hefir um allmörg ár, og það eins fyrir tíð bóndans, sem þar er nú, verið búið með dugnaði, enda má það heita mesta stórbýli, í nýmóðins stýl, alt járni klætt, peningshús og manna. Bóndinn þar, Magnús Magnússon, er formaður búnaðarfélagsins í sveitinni, og afkastar hann mjög miklu í jarðabótum, sléttaði yfir 2 dagsl. 1901. Tún virtust mér orðin alslétt, og nú var verið að rækta girt svæði á mel utan túns, og þurfti að keyra þar að moldina; þar mun vera ilt til slægna, en beit góð fjær sér. Magnús hefir síðustu árin ekki fært frá, og telur hann sér góðan hag af því. Eg rak mig hvergi í ferðinni eins og hjá Magnúsi á jafnskýra athugun og eftirgrenslan á því, hvernig hvað eina gæti borið sig og borgað af búskapar-nýjungum og viðleitni.

Í Hörðudalshreppnum sléttar hver félagsmaður rúma hálfa dagsláttu á ári. Tún munu vera í fremur góðri hirðingu og allvíða girt, timburhúsabyggingar miklar. Allar jarðirnar eru bændaeign og margar í sjálfsábúð, að minsta kosti fara sáralítil jarðaafgjöld út úr hreppnum. Annars eiga 4 suðurhreppar Dalasýslu óskilið mál um þetta síðastnefnda. Í þeim öllum samantalið er fullur helmingur sjálfseignarbændur, og pantsetningar til banka munu víða vera meiri en þar. Umskiftin er mikil og gleðileg frá Snæfellsnessýslu.

Dalamenn — ɔ: Hörðdælir, Miðdælir, Haukdælir og Laxdælir — eru flestum fremri í notkun jarðyrkjuverkfæra og hestakraftar. Hestaskóflur eru alment notaðar, sem víðast er lítið um hér syðra. Sleðakeyrsla nokkur að vetrum með hestum fyrir. Menn vinna sér léttar og ódýrar að

jarðabótum en annarstaðar gjörist, skifta verkum betur, og akkorðsvinna er tíð. Fyrir að rista ofan af dagsláttu eru greiddar 35 kr., greitt svo sér í lagi 15 kr. fyrir að kasta úr flagi o. s. frv. Akkorðsvinna á alsléttaðri dagsláttu í túni, enda þótt dálítil grjóthreinsun felist í því, er ekki nema 130 kr., en ætlast er þá til að notað sé plógur og herfi, sem bóndinn leggur til, og undirburður auðvitað fluttur að. Skilvindur munu vera um Dali á öðrum og þriðja hverjum bæ. Hverfisteinar eru rétt alstaðar stignir. Taðkvarnir eru ekki mikið notaðar í Dölum, og gjöra Borgfirðingar miklu meira að því og telja sér stórmikinn vinnusparnað. Vísast er það í Borgarfirðinum að þakka taðvélinni, sem þjóðhaginn Erlendur Gunnarsson á Sturlureykjum í Reykholtsdal hefir fundið upp og haft á boðstólum og gefist mæta vel. Skemra eru og Dalamenn komnir en Borgfirðingar í bólusetningu sauðfjár fyrir bráðapest; gefist miður þar vestur um. Áburðarnýting er líklega í skárra en meðallagi, ein 2—3 safnhús í Suðurdölum. Á fleströllum bæjum er brent enn sauðataði meira og minna, og salernin hvergi nærri alstaðar komin, þar sem þó töluvert hefir verið lagt til bygginga, hvað þá annarstaðar. Það er eitt fyrir sig, þótt ekki sýnist stórt, að koma því inn í fólk, hvaða skömm og skaði það er, að hafa eigi slík hús á bæjum.

Sauðafell stendur í miðri Miðdalabygðinni, og fyrir forgöngu Björns sýslumanns Bjarnarsonar höfðu búnaðarfélögin fjögur í Dölunum stefnt til fundar að Sauðafelli síðari hluta sunndagsins 6. júlí, og sóttu fund þann um 50 bændur. Eg skýrði þar sem annarstaðar frá framkvæmdum og fyrirætlunum Landsbúnaðarfélagsins, og hver not búnaðarfélög og einstakir bændur gætu haft af því. Mörg búnaðarmálefni voru tekin til umræðu, og skulu hér nokkur nefnd:

Talað var um hvort sennilegra væri að sölu-afurðir héraðsins yrðu í framtíðinni fremur kjöt eða smjör. Yfirleitt álitið að sveitirnar séu fult svo vel lagaðar til sauðfjárrækt-

ár, nautgriparækt þó aukist mikið síðustu árin og tún stækkuð, og vísast efni í ágætt flæðiengi á láglendinu þar sem árnar eru að færa sig saman inn af hælnum á Hvammsfirði. Vandkvæðin talin, sem stendur, meiri að koma frá sér smjörinu.

Skorað var á Landsbúnaðarfélagið að láta reyna öll landbúnaðarverkfæri, sem ætla mætti að komið gætu að notum hér, og gefa skýrslu um þær tilraunir, ætti félagið að hafa öll slík verkfæri til sýnis og á boðstólum.

Mikið var rætt um kynbætur, og þá einkum nautgripa og hesta, og lagt að Landbúnaðarfélaginu til öflugrar forgöngu og verulegra fjárframlaga, jafnvel hugsað til að félagið sjálft stofnaði og ætti nautakynbótabú og ætti sömuleiðis sjálft graðfolana, og færði þá til, svo að not þeirra yrðu sem víðast.

Talað var og um plægingar, talið nauðsynlegt að halda í félagi leikinn mann í því verki með æfða hesta og góð tæki, í vinnu sumarlangt.

Einna lengstar urðu umræðurnar um hirðing og nýting áburðarins, og var sérstaklega óskað rannsóknar á því, hvort betra væri að bera á að haustinu eða að vorinu.

Formaður búnaðarfélagsins í Miðdalahreppi er Ólafur hreppstjóri Finnsson á Fellsenda, sá hinn sami er hæst fékk verðlaunin úr Ræktunarsjóði í sumar sem leið. Hann er sérlega vel að þeim verðlaunum kominn, eigi mest fyrir það, hvað stórvirkur hann er, hefir t. d. 1901 sléttað yfir 2 dagsl., heldur hitt, hvaða gras hann fær út úr jörðinni, hún sýnist þó alls ekki vera svo frjó og feit á Fellsenda. Eg kom fyrst heim til hans á suðurleið, seint í 12 viku, voru þá 80 hestar komnir í garð hjá honum, þegar rétt var farið að bera út hjá öðrum. Því veitti eg eftirtekt, að þar er sérlega vel haldið til hirðu öllum áburðarlegi. Ólafur er áreiðanlega búhygginn maður og hagsýnn, og hjá slíkum bændum verður nú að koma fyrir bændaefnunum í verklegt nám, þegar bóklega og verklega búnaðarskólakenslan greinist að.

Eg hefi athugað það, að í engu búnaðarfélagi á land-

inu vinna félagsmenn eins jafnt og í Miðdalafélaginu, koma þar 60 dagsverk á mann og ²/₃ úr dagsláttu sléttaðri. Hin félögin í Dölum eru smátækari, þótt góð séu. Formaður Haukadalsfélagsins er Árni Jónsson á Jörva, en Laxárdalsfélagsins Kristmundur Guðmundsson á Vígholtsstöðum, hann með fulla dagsláttu árið 1901. Annars hleypir þar mest fram verki, að Bogi faktor Sigurðsson í Búðardal hefir undir býli hjá sér, og sléttað þar á einu ári 4 dagsláttur.

XIII.

Tvær ágætiskonur breiðfirzkar hafa fyrir skemstu gefið Vesturlandi eigur sínar til minningar um látin börn sín, og minna þær báðar, frú Herdís Benedictsen frá Flatey og frú Katrín Þorvaldsdóttir frá Hrappsey á merkilega kynstofna við Breiðafjörð. Margur leiðir það í tal við gestinn hvernig nú er komið fyrir höfuðbólunum breiðfirzku og ættunum, sem á bar svo mikið öldina sem leið og lengra fram, þær eru sem horfnar og sópaðar burtu. Mér skilst að það hafi verið eyjagagnið víðast hvar, sem áður var fótur og stoð auðræðanna, og auðvitað er margt það í viðskiftalífinu og öðru sem gerir það gagn miklu minna nú.— Annars liggur við að manni stundum fljúgi í brjóst sú ljóta hugsun, ekki framar við Breiðafjörð en annarstaðar, að hér á þessu landi, þar sem flestir forðast líkamlegu vinnuna, karlar og konur, og ekkert er sportið að bæta úr, þá geti ekki þrír ættliðir óslitið átt góða daga, eða kannske réttara sagt, átt nóg að éta, án þess að úrkynjast.

Eg var þar viðstaddur er frú Katrín setti skipulagsskrá fyrir „Þorvaldar minning“, er bændaefni í Dalasýslu eiga af að njóta, til að verða nýtari menn í stöðu sinni. Sjóður sá er nú um 5000 kr., og verður farið að veita úr honum eftir 8—10 ár. Eg man hvað frú Katrín lét báglega við mig yfir búnaðarástandinu við Breiðafjörð, og taldi stórkostlega afturför frá sínu ungdæmi. Þetta var fyrir einum 14 árum, og framförin hefir síðan lítil verið í þeim bygðum, er henni stóðu næstar, en í suðurhluta Dalasýslu dylst

manni eigi að mjög mikið er til bóta gert síðasta hálfa mannsaldurinn. Og þessir fjórir syðri hrepparnir eru einmitt landsveitir, sem sáralítið eyjagagn hafa. Hvað mikið á að þakka skólanum í Ólafsdal þessar framfarir get eg ekki um dæmt, vinnulag og verkfæranotkun ætla eg að þaðan sé komið. Svo hygg eg og að þessar alveg stöku framkvæmdir Miðdalafélagsins séu mikið að þakka Birni sýslumanni á Sauðafelli, hann hefir verið allra manna stórvirkastur í jarðabótum sjálfur — sléttað um eða yfir 30 dagsláttur m. m. Auk þess á Björn svo víða einmitt upptökin til framkvæmda og nýjunga, og er einn af þeim fáu sem les útlend búnaðarrit.

Suðursýslan er prýðilega veguð og brúaðar ár, og skiftir þar mjög í tvö horn við norðursýsluna, eftir reglunni að þeim gefst er hefir. Landið suður um er fallegt í blettum, og þeir Miðdalamenn ætla auðsjáanlega sumir ekki að hætta fyr en þeir eru búnir að koma grænu túnbelti alla hlíðina í kring um fellin. Og eitt sér maður á kortinu og finnur á sjálfum sér, þegar maður er annan daginn úti við Gilsfjörð og hinn inni í dölunum, að þar er skjólið fyrir skógana ógrónu.

Fallegasta túnið í Dalasýslu þykist eg hafa séð hjá Kristjáni hreppstjóra Tómassyni á Þorbergsstöðum í Laxárdalshrepp. Túnið er fullar 20 dagsláttur og fær hann af því fulla 400 hesta, mikið af því auðvitað tvíslegið. Alt mun það vera sléttað af Kristjáni, og eg sé skrifað hjá mér að þar hafi hann fyrir 30 árum fengið 30 kapla úr þúfnatroðningum. Það lag hefir hann með áburð að bera mikið á í senn til skifta.

Hvammur í Hvammssveit var næsti áfangastaðurinn hjá Kjartani prófasti Helgasyni, sem er formaður búnaðarfélags Hvammssveitar. Síra Kjartan hafði gengist fyrir fundarhaldi þar, og komu þar 10—20 bændur úr Hvammssveit og af Fellsströnd. Formaður Fellsstrandarfélagsins er Jóhann bóndi Jónasson í Skógum. Bæði eru félög þau fámenn og smávirk.

Hvammurinn hennar Unnar er svipgóður þarna við

tána á Hvammsfirði. Á sjónum er krökt af álftum, sem aldrei er skotið á, endá hafa nokkrir bæir þar töluvert gagn af fjaðratöku. Uppi í hlíðinni er skógur að gróa, græn svo ótt þar í skjólinu, og moldin frjó í líparítfjallinu, til eru þriggja álna hríslur fárra ára, en þessi nýgræðingur á líka góðan að í húsbóndanum; síra Kjartan er mesti trjáræktarmaður og grasavinur, á margt lífvænlegt í garðinum sínum, og út þyrði eg að bjóða skólagengnu mönnunum á móti Hvammsbörnunum í að þekkja grösin þar í kring.

Á fellur eftir hvamminum, fremur óþörf sem stendur, því að hætta stendur túnfæti og engi niður í frá af landbroti, og bíður séra Kjartan skoðunar á því, hvort kleift er að afstýra þeim skemdum. Engið er gott og allmikið, og minna rústirnar af viðum stakkgarði í miðju enginu á búskaparlag fornmanna, og enn mótar fyrir löngum garði einlægum um engjar og tún, og mun vikið að þeirri girðingu í Sturlungu.

Síra Kjartan er hættur að færa frá, sem fleiri góðir bændur vestra; telur hann sér hag að því, en grunaðan hafði eg hann um það, að eigi væri það síður gjört til að friða nýgræðinginn í hlíðinni. Fólkseklan á og sinn hlut að slíkri breytingu. En hugfast verður að hafa það, að sitt á við á hverjum staðnum. Stöðugt þarf þetta sama að vera uppi á teningnum: Hvað ber sig og borgar *á hverjum stað?* Ærnar og lömbin á þessum staðnum, sauðirnir á hinum o. s. frv. Eg ætla kynbótamönnum að tala um kynbótaáhrifin af móðurfóstrinu sumarlangt, mér verður fyrst að hugsa, að við þetta fjölga blettirnir, sem friðast til skóggræðslu.

Sparisjóður er í Dalasýslu; mun sýslumaður hafa komið honum á fót, en prófastur stjórnar honum, og er mikið hagræði talið að sjóðnum. Sparisjóðir verða að komast upp til sveita og hafa miklu meira fé handa á milli en nú. Sparisjóðir til sveita, sem alt öðru vísi geta miðlað fé upp á persónulegt lánstraust grannanna, en peningastofnanir í fjarlægum kauptúnum, geta átt mjög mikinn þátt í viðreisn landbúnaðarins. Þeim krafti þarf að veita inn í sveitirnar.

Þessir sparisjóðir þurfa þá auðvitað að geta fengið nægilegt fé með bærilegum kjörum. Það er eitt nauðsynlegt ritgjörðarefni, hvort heldur í Búnaðarritinu eða annarstaðar, að skýra frá hvað langt menn eru komnir í félagslántöku og félagssamvinnu víða erlendis, og er ótrúlegt hvað „fátækir smáir“ geta með því áorkað, en margur er þar auðvitað „Þrándurinn“ í götu þjóðar vorrar, þegar til félagssamvinnu-lífsins kemur.

XIV.

Eg gafst upp við að fara um Strandir, en kleif yfir Klofninginn frá Hvammi, lengstan óveg sem eg hefi farið, og þar sem er sagður vondur vegur vestra, er áreiðanlega vondur vegur; en að Skarði varð eg að koma. Dóttursonur Kristjáns kammerráðs Magnússens, Guðmundur kaupmaður Jónasson í Skarðsstöð, heldur nú staðinn og annast systir hans um búið. Mikil eru túnin á Skarði og 20 kúa fóður kemur úr eyjum, og Ólöf Loftsdóttir „á þar enn tóttir“ í Smjördal norður í túninu, og vonandi færist bráðum smjörskemman hennar suður að ánni, sem skilur höfuðbólið frá Manheimum. Skógurinn er nú horfinn úr hvamminum í landi Geirmundar konungs, en reiðgöturnar utan frá heita enn Skógargötur, og áður hétu þær Leynigötur, af því að eigi sást til mannaferða á þeim, og efst á höfðanum, sem hvamminum lokar að innanverðu, minnir Bóndavarða á þá málvenju liðinna alda, er bóndaheitið var aðall og einkenni höfðingja.

Á Skarðsströndinni var ekkert búnaðarfélag og enginn talinn líklegri til forgangs að koma því á fót en Guðmundur kaupmaður, en eigi treystist hann til þess að sinni, og eigi heldur gamall og nýtur jarðabótamaður, Guðlaugur Daðason á Heiðnabergi, er eg átti tal við um það efni. Búskapur er yfirleitt fremur bágborinn á báðum Ströndunum og þó öllu fremur á hinni nyrðri. Af bændum á landi í Dagverðarnessókn var fullur helmingur á skútum vestra, og þá auðvitað enginn verkfær karlmaður heima.

Bráðapest, sem yfirleitt var sögð fremur væg í Dalasýslu, hefir sérstaklega gjört vart við sig að mun á Skarðsströnd, og fór eins féð í eyjunum.

Inn Skarðsströndina er ekki mikið um undirlendi, víðast sæbratt og fjöll há upp af, og eru skriðurnar undir hamrastöllunum grónar upp og grænar af mávadriti. Mávunum var þó eytt hér á árunum, nema hvað það tókst ekki í Nýpurhyrnu. Búsældarlegast verður í Fagradalnum; áin þar skilur hreppana og Innri Fagridalur heyrir til Saurbænum. Þaðan aftur sæbrött hlíð inn að Tjaldanesi, þar sem Salthólmavík er löggiltur kaupstaður, en föst verzlun hefir eigi komið þar framar en annarstaðar, sem löggilt hefir verið á seinni árum, en kaupfélag Stranda og Dalamanna leggur þar upp vörum sínum, og var laugardagurinn, þegar eg var staddur í sveitinni, mikill kaupstefnu- og afhendingardagur niður í Tjaldanesi, og leizt mér svo sem flest fólkið mundi þangað fara af sumum bæjunum, en víðast hefir það um leið verið til að lyfta sér upp undir sláttinn. Annars mun kaupfélagsskapur þar um slóðir vera allmikill og traustur til halds og þrifa.

Áfangastaðurinn í Saurbænum var hjá skólabróður mínum síra Ólafi prófasti Ólafssyni á Staðarhóli. Torfi skólastjóri Bjarnason í Ólafsdal hafði boðað til fundar að Staðarhóli síðdegis sunnudaginn 13. júlí og komu þar nokkrir helztu bændur sveitarinnar, og var þar þann dag fyrir forgöngu Torfa reist við aftur búnaðarfélag Saurbæjarhrepps, er legið hafði niðri um hríð. Formaður félagsins er Magnús hómópati Guðlaugsson í Hvammsdal, og töldu 10 búendur þar fram fyrir árið 1901 full 400 dagsverk, mest í túnasléttun, en góður helmingur af því var auðvitað í Ólafsdal. Að honum sleptum var frú Jakobína Thorarensen í Stórholti hæst. Stórholt er á norðurjaðri sveitarinnar, mikil jörð, túnstæði ágætt og nógir móar að plægja niður. Önnur alkunn jörð er Hvítidalur í eða út úr Hvolsdalnum sunnan til í sveitinni, þar sem Guðbrandur bjó, sonur Sturlaugs ríka í Rauðseyjum; fékk Guðbrandur á sinni tíð verðlaun af

konungssjóði, taldist þá að hann hefði 100 dagsláttur undir vatnsveitingum. Nú býr þar Einar Guðbrandsson, einkar myndarlegur maður, er heim kom eftir alllanga dvöl í Ameríku, til að taka við jörðinni eftir föður sinn látinn.

Neðri hluti sveitarinnar er marflatt láglendi, fremur í skjóli og alt í grasi, og tvær frjóar ár og auðteymdar renna um landið. Árnar eru Hvolsá og Staðarhólsá og koma hvor úr sínum dalnum, er við eru kendir, og renna loks saman í ós við Tjaldanes. Þar í „Oddanum“ milli ánna er talið bezt fallið til áveitu, og talað um að fá ráðunaut Búnaðarfélagsins til mælinga á næsta sumri. Landið sem hæfilega gæti tekið við vatninu er harla vítt og langt fram yfir áræði og getu sveitarinnar. Áreiðanlega er þarna mjög mikið og gott kúaland og smjörgerðar, en eigi skildist mér að enn væri kominn hugur í menn til að setja upp smjörbú, en til voru þó nokkrar skilvindur á stærri heimilunum.

Á miðri sléttunni stendur kirkjan alveg einmana á dálitlum hól, sem Skollhóll heitir, en nú mundi úr þessu fara að heita Kirkjuhóll; er kirkjan reist af sókninni og er vel vandað til, og sögumenjar frá Staðarhóli geymast þar, þótt vart séu eins tilkomumiklar og í Skarðskirkju. Þarna í kirkjunni í Saurbænum man eg bezt eftir altarinu, sem er öflugur hollenzkur peningaskápur með ártalinu 1590.

Stríðlaust gekk það ekki að færa kirkjurnar saman á þennan óbygða stað og misjafnir eru dómarnir um það enn. Eg leyfi mér nú að telja það merkilegan fyrirboða þess, að þessi afargrasauðuga sveit eigi þarna í vændum miðdepil menningar og þrifa. Í huganum reisi eg þarna á hólnum eða við hann smjörbú, fundahús, skóla og prestsetur. Tvö síðastnefndu húsin hugsa eg mér helzt undir einu þaki, eða með öðrum orðum, að presturinn sé sveitarkennarinn, en um leið létti eg stórmikið á prestinum, hann á ekki að búa frekar en það, að hafa einar 30—40 dagsláttur af ræktuðu landi út frá sér og 4—6 kýr og 2 hesta. Slíka jörð stundaði hann sjálfur með eigin höndum til hressingar og heilsubótar,

og nettótekjurnar yrðu að minsta kosti eins drjúgar úr smjörbúinu og þær reynast núna af búum prestanna víðast.

## XV.

Ólafsdalur er á sýsluenda og lengra var ekki ferðinni heitið. Byggingarnar eru alls meiri á Hvanneyri, en sjálft skólahúsið er mun vandaðra og vænna í Ólafsdal og mesta snild er á frágangi allra húsa og tækja þar, en sjálft landið hafði eg ímyndað mér að væri betra, en mér kom það fyrir sjónir. Ekki er að tala um hvað eldri hlutir túnsins eru í góðri rækt, en útgræðslan er afardýr, og örðugt að verjast uppgönguvatninu undan fjallinu, sem gnæfir yfir. Engjar verður Torfi að sækja inn í Saurbæ og heyjar þar handa sauðfé og hrossum; dalverpið inn af heima sýnist vart vera meira en kúahagi. Ærnar eiga aftur beztu beit úti í hlíðinni við Gilsfjörð, þótt grýtt og graslítil sýnist frá götunni. Í Belgsdal hefir Torfi gjört mestar engjabætur. Peningshús hans og hlöður á bökkum Hvolsár eru tilsýndar að sjá heill kaupstaður, verst að áin hefir komist þar upp til stórskemda, og var í ráði að færa húsin og mun enda hafa verið gert í haust sem leið. Jafn-fallegastar kýr sá eg í Ólafsdal.

Lítil von mun vera til að fá akveg úr Saurbænum inn eftir Ólafsdalshlíðinni, vegarstæði örðugt mjög og vegarlengdin frá Stórholti í Ólafsdal dregur í míluna. Aftur má flytja að sér á sjó upp í túnfótinn, vítt gerði þar niður við sjóinn, uppgræddur melur, frálaus heimatúninu, sem stendur allhátt uppi í dalskálinni. En sæta verður sjávarföllum um Gilsfjörð, sem fjarar þurran út eftir öllu.

Eg skil það vel, að amtsráðið var í fullum vanda með Ólafsdalsskólann. Eg hygg nú vel farið sem fór í því örugga trausti, að Torfa verði gert mögulegt með nægum framlögum úr landssjóði að halda uppi búnaðarskólanum enn um nokkur ár — hann er nú maður hálfsjötugur — meðan hann hefir heilsu og krafta til þess, en lengur ætla eg ekki búnaðarskóla að standa í Ólafsdal. En þessi dýra og fagra stofnun þarf að verða almennings eign eftir daga Torfa og sé eg

ráð til þess. Minningarsjóður frú Herdísar á nú um 50,000 kr., og innan langs tíma má koma upp fyrir sjóðinn hinum fyrirhugaða kvennaskóla á Vesturlandi, og er hann einmitt prýðisvel settur í Ólafsdal, og kenna má þar að gagni húsmæðraverkin til sveita og hafa lýðháskólablæ á heimilinu, sem ekki verður í kaupstað.

Vilji nú einhver segja, að þetta sé gjört vegna Torfa og fyrir hann, úr því að búnaðarskóli þarna á staðnum, og yfirleitt samblandsskóli af verklegu og bóklegu námi, þykir ekki líklegur til frambúðar, þá má það gjarnan heita svo, og er aldrei nema loflegt. Með því að halda skólanum við nokkur ár enn, er Torfa gefið færi til að vinna áfram sitt góða starf, og vér höfum ekki svo marga slíka krafta, að vér megum kasta þeim frá oss. Torfi er enn ern og „ungur“, og langar ekki á eftirlaun, og skólinn hefir áfram sama traust og er vel sóttur. Það er kunnugt hvað Torfi hefir unnið fyrir landbúnaðinn íslenzka og þó vart fullmetið enn, hitt liggur eigi jafnt í augum uppi, enda þarf persónuleg kynni til að skilja það og finna, að frá heimilinu í Ólafsdal hefir síðasta aldarfjórðunginn runnið út yfir landið sérlega hollur og hlýr straumur. Eg á auðvitað ekki við þessa búfræðismentun, heldur við mótið, sem heimili Torfa hefir sett á marga lærisveina þaðan, í siðgæði, tápi og trausti á landið.

Um tóvinnuvélarnar í Ólafsdal sögðu þeir mér þar, að afnot þeirra færu vaxandi ár frá ári, og væru þær í áttina að bera sig. Örðugt hlýtur þar að vera með flutninga til og frá. Þegar nú koma upp í sveitunum í kring — og þess verður eigi lengi að bíða — plægingamenn, sem ekki gjöra annað sumarlangt en að plægja, og eiga sjálfir hestana, þá geta þeir hinir sömu haft vetrarvinnu fyrir hesta sína með því að vera ullarpóstar til og frá Ólafsdal, út til allra sýslnanna í kring. Eftir því sem til hagar, verður slíkur flutningur vísast einna ódýrastur; plægingarhestar, sem vinna sumarlangt, þurfa hvort sem er að alast að vetrinum. Hitt skyldi vera, að verra væri líka að bera á þeim.

## XVI.

Í suðurleið fór eg „Heiðina“ úr Saurbænum niður Sælingsdalinn og um hjá Bollatóttum, þar sem rekja má spor Guðrúnar ofan fyrir brekkuna til lækjarins; hafði eg þar góðan leiðsögumann, er var Magnús hómópati Guðlaugsson í Hvammsdal. Jörð sú er vel setin og stórum bætt af Magnúsi; hefir hann mest fengið þar um 350 hesta af töðu, en mun minna var það síðastliðið sumar, sumarið var þar svo þurt og kalt. Í þessum dalaðrögum suður frá Staðarhóli er einkar fallegt og gott land og líkt er um Sælingsdalinn sunnan heiðarinnar.

Þegar suður yfir var komið í Hvammssveitina aftur, sá eg reykinn frá „Skálholti“, er út var að leggja frá Búðardal og var orðið á eftir tímanum og hafði legast þar, enda má ekki hálftímanum halla með að nota flæðarliggjandann inn í Hvammsfjörð. Við allan Breiðafjörð er Hólmurinn eini staðurinn, sem áfengi er selt á, svo að frjálst sé að lögum, en þess meir er þá á hinum höfnunum til skaða og skammar notuð hin óleyfilega sala strandbátanna, og þarf að losast sem fyrst við þann ófögnuð. Fleygt heyri eg því, að leitað muni nú vínsöluleyfis, er eigendaskifti verða á kauptúnunum við Breiðafjörð, en vonandi verða bindindisöflin nógu sterk til að afstýra því, og þau öfl eru til í Dalasýslu, sem betur fer. Þess ætti að vera skemst að bíða, að ekkert áfengi væri á boðstólum frá Reykjavík til Ísafjarðar — höfuðborgirnar falla síðast.

Ásgarður var í leið minni, mikil jörð, og hefir Bjarni bóndi Jensson reist þar miklar byggingar yfir fólk og fé. Þeir feðgar, hann og Jens Jónsson á Hóli, eru báðir í stjórn búnaðarfélags Hvammssveitar; hefir Jens mjög lengi búið á Hóli með sóma og gagni, og er nú uppgefinn og hættir búskap, og reynist þá svo sem svo sorglega víða, að ekkert barnanna verður til að halda áfram og njóta verka föðursins.

Að Hjarðarholti var skemtilegt að koma. Síra Jón heitinn Guttormsson og hans fólk skilaði staðnum svo

snildarlega að húsum og túni, og er maklegt að geta slíks til lofs. Síra Ólafur Ólafsson frá Lundi var þá nýkominn, og má fulltreysta honum að halda vel áfram verki formanns síns, og að hann reynist nýtur félagsmaður. Hinn prestinn í Dölunum sótti eg líka heim í suðurleiðinni, séra Jóhannes L. L. Jóhannsson á Kvennabrekku. Séra Jóhannes er kunnur af búskaparhugvekjum sínum í blöðunum, og hefir hann þrátt fyrir örðugar kringumstæður unnið mikið, túnið er í góðri rækt og góða stund leggur hann á garðyrkju. Það voru einir 3 prestar, sem góðs nutu af jarðabótalánum alþingis 1897, og var síra Jóhannes einn þeirra.

Úr því fór eg sem leið liggur suður Bröttubrekku frá Fellsenda — og fylgdi Ólafur mér suður yfir. Eg get ekki stilt mig um að nefna eina jörðina enn á götu minni, Breiðabólsstað í Sökkólfsdal; býr þar ekkja Elísabet Baldvinsdóttir, og taka fáir henni fram í Miðdölum í að bæta og prýða jörð sína.

Eg fæ eigi betur séð og skilið en að efnin séu mörg og góð í Dölunum, og þar eru áreiðanlega landvinnumenn, og fjörið og áræðið kemur smám saman til margskonar félagssamvinnu, vona eg.

Frá Dalsmynni í Norðurárdal fór Vigfús hreppstjóri Bjarnason með mig í kring um Hreðavatn. Er þar einna blómlegastur skógur sem eg hefi séð hér sunnanlands, og landið alt mjög einkennilega fagurt.

Annað var nú ekki eftir en búnaðarmálafundurinn að Hvítárvöllum 19. dag júlímánaðar fyrir Mýrasýslu og Borgarfjarðar, og er ágrip af gjörðum þess fundar áður prentað í Búnaðarritinu (16. ár, 4. hefti), og verður því eigi talað hér um þann fund. Á fundinum var meðal annars talað um lög og fyrirkomulag búnaðarfélaganna, sem er nokkuð mismunandi hvað snertir skylduvinnu félaga, útbýting styrksins o. fl. Upp úr því fræddist eg um eitt, sem ekki stendur í neinum lögum, en komist hefir á í einu eða fleirum félögum ofan til í Borgarfirði og mönnum mun þykja fróðlegt að heyra: Félagið borgar sem sé fyrir meðlimi sína svo mikla

ofanafristu í túni að haustinu, sem þeir kunna að kjósa, hvort það eru 10 faðmar eða 1000; auðvitað fæðir bóndi verkmanninn. Þetta er ótrúlegt fyrst í stað, en er ofurgjörlegt: Kaupið á haustdag er sett króna um daginn og manninum gert að rista ofan af minst 40 föðmum, og svo er auðvitað treyst því að þetta flag í túninu verði pælt og tyrft, og þá borgar landssjóðsstyrkurinn á öðru ári krónuna, sem félagssjóðurinn lagði út haustinu áður. Þetta er vel í sögur færandi til eftirbreytni, og ekki svo óheppilegt dæmi til að stinga upp í þá, sem eru að amast við búnaðarfélagastyrknum.

Eitt er það með öðru, sem starfsmenn Búnaðarfélags Íslands bera fyrir brjósti á ferðum sínum, og það er að fá bæði búnaðarfélögin og einstaka menn inn í allsherjarfélagið. Félagatala vor er nú sem stendur — í byrjun aprílmánaðar 1903 — full 500, og eru 90 búnaðarfélög, tiltölulega flest á Norðurlandi, í þeirri tölu. Um 200 hafa þá bæzt við síðan tekið var við af Suðuramtsfélaginu, og kemur sá viðauki alljafnt á fjórðungana, en $^3/_5$ félaga alls eru auðvitað enn í Sunnlendingafjórðungi. Síðustu 2 ár, hvort um sig, hafa bæzt við 80—90, en það gengur of seint. Setjum markið, að ná 1000 félögum, og það sem fyrst. Mest hefir dregið um það, er einstakir áhugamenn hafa í einu komið með hóp sveitunga sinna inn í félagið. Stjórnendur búnaðarfélaganna allra í báðum sýslunum ráðgerðu inngöngu og flestöll eru komin, hin munu bíða vorfundar með það, og allmargir í Dalasýslu hafa gengið í félagið frá því í sumar

Eg veit að margt var vanskoðað hjá mér, og ýmislegt kann að vera miður rétt skilið, og sumt mun nú þykja ofmælt, og bið eg sérstaklega þá, er þetta tekur helzt til, að virða viljann. Öllum kann eg beztu þakkir fyrir vinsemd og góða fyrirgreiðslu.

Heim var eg kominn 20. júlí og hafði þá verið fjórar vikur fullar á ferðinni.

---

Eg vil eigi dæma um það, hvaða gagn kann að verða af slíkum ferðum stjórnenda Landsbúnaðarfélagsins. Aðal-

verkefnið er að tengja saman Landsbúnaðarfélagið við sveitafélögin, þar í milli þarf kynning og samvinna að komast á. Nauðsynin til slíkra ferða er vísast mest fyrir okkur sjálfa, sem höfum vandann af stjórn félagsins.

*Þ. B.*

---